# LJÓÐMÆLI

EFTIR

**GUÐNA JÓNSSON**

*FRÁ DUNKÁRBAKKA*

M. M.



REYKJAVÍK

GEFIÐ ÚT Á KOSTNAÐ HÖFUNDARINS

1903



# FYRSTI FLOKKUR.

## NOKKUR LJÓÐABRÉF.

---

### Ljóðabréf til hjóna í Grímstungu.

HÉR um slóðir hrygð og þraut
hreifa blóði mínu,
mætum vóðins vita gaut
vil eg bjóða línu.

Beiti á grunnungs boðnar ál
bláins hlunna kiði,
heilsar munnur, hugur, sál
hrannar sunnu viði.

Fyrir seinast fund sem ber,
fyrst í greinum ljóða,
eðalsteina þundur þér
þökk skal hreina bjóða.

Heiðurs bæði hjónin völd,
hrygð og mæða þrotni,
þiggið gæði þúsundföld
þið af hæða drottni.

Trúi eg stríð í heimi hér
hölda víða þjái,
ei þó líður illa mér,
engu kvíða nái.

Vesall hjara verð í heim,
vill mig spara' alfaðer,
eg er farinn hugsa heim,
huggun bara það er.

Eg mun bráðum sigur sjá,
sælu' og náðir hljóta,
himna láða lofðung hjá
lausnar þjáður njóta.

Þakka hæða öðling á
andleg gæði, er forða nauð,
lands um svæði líka þá
lífsins fæði, daglegt brauð.

Frá á stað þá fór eg þér,

fíls um vað til baka;
beizlaglað, er gafstu mér,
gjörði hraður taka.

Fyrir þann eg þakka hér,
og það mér annað valdir,
buðlunganna buðlung þér
borgun sanna gjaldi.

Heiðurs fjáðu hjón í lund
hljótið náð án vafa,
þið samráða þegið pund
því ei náðuð grafa.

Það er sælu hugsun hér,
hrygðar kælu vana,
einn guð mælir út fyrer
okkur smælingjana.

Hvað, sem pínir heims um bygð,
herran sína geymi,
ykkar fína eðla dygð,
öðrum skín í heimi.

Ellin bannar minni mér,
mærð þó anni tegja,

fréttir sannar, fleira ver,
fáar kann eg segja.

Þar á minnist þels um bekk,
þó ei sinni klaga,
hafísinn í fyrra fékk
fyrðum vinna baga.

Norðan glettu næðings tíð,
náði flétta ama;
nam ei spretta foldin fríð
fyrir þetta sama.

Vinda jag og austan átt,
ei nam laga friðinn,
gras til baga barst heim smátt
Bjarnar dag næst liðinn.

Grasið langa sást hér sízt,
samt þó angri förgum,
garðar svangir verða víst
við hjá spanga mörgum.

Hrindir kvíða megnum móð,
mein og stríð kann bæta,
vetrar tíðin víst er góð,
vill sú lýði kæta.

Kulda gjólu kafaldshríð
kom með jólaföstu,
fáar njólur faldi' óblíð
fjörgins hól og röstu.

Sunnan varð með svækju gný,
svelli harða lógar,
síðan hjarðir hölda því
hafa jarðir nógar.

Nærri fríðum höfrungs hyl,
hrindir stríðum baga,
þollar skíða þar í vil
þorskinn fríða draga.

Frétt ei nái þylja þér,
þundur sjáar fíra,
og því tjáist hættur hér
hróðrar skrá að stýra.

Ósk og gátu ei þá dyl,
örfa káti hlynur,
mitt að fátað mærðar spil
mér forlátir, vinur.

Hjartagróna hugmynd el,

hér í sóni bara,
ykkur hjónin æðstum fel
allra fróna hara.

Guð, sem ræður gjarnan því,
garpur, klæðareinin!
tíma bæði og eilífð í
ykkar græði meinin.

Ljóða sjálfur sendir skrá
sínum málvín glöðum,
hita gjálfurs hirðir á
heima í Álfatröðum.

Fékk þá lagað ljóða vír,
laus við baga skrafa,
febrú dagar fernir þrír
fram hjá slagað hafa.

Átján hundruð ártal menn,
allir mundu lýsa,
tugi fundu sjö til senn
seggir grund um ísa.

Hvar sem rata heims um stig
heiti glata varla.

Harald Natanaels mig,
niðja skatar kalla.

## Ljóðabréf til Önnu Jónsdóttur á Bílduhóli.

Óðins svala sofið fín,
sem í dvala hefir,
vöknuð gala vill til þín
við laus kala, systir mín.

Óska' eg þess um æfi tíð,
ánægð hress í sinni,
sæl og blessuð sértu fríð
svölnis vessa dygðug hlíð.

Eg af hjarta þakka þér,
þæga skartið trygða,
sem óspart þú sýndir mér,
svoddan vart oss gleyma ber.

Þér mig fýsir fyrsta sinn
fáar vísur senda,
mána dís því mörkin svinn,
minn upp rísi hugurinn.

Dísir kvæða ljái lið,
laga ræðu mína,
grund svo klæða geðs um mið
gleðja næði dálítið.

Margar stundir fæðing frá,
fékkst mér undra gleði,
oft ígrunda unun þá,
ei var pund þér grafið hjá.

Ung þá saman sátum við,
sýndist ami fjarri,
þótti gaman máls um mið
mynda glamurs orðaklið.

Man eg, víðis mána gná,
margar tíðir gleði,
stint réð smíða stökur þá,
störtlaði kvíðinn burtu frá.

Alvarleg nú önnur tíð
oss útvegar störfin,
aldur þegar lengist líð
lífs um veg er: skin og hríð.

Margt þó gangi mér í vil

margt vill angur pína,
margt á langri leið er til
lund hjá spanga og seymabil.

Konan bæði og börnin mín
bezt mér glæða yndi,
hverfur mæða hrygð og pín,
helgra gæða sólin skín.

Von og kvíði varla dvín,
verð eg síðar skoða;
hvernig blíðu börnin mín
brúka tíð í guðs augsýn.

Þó sjálfur stundum synda fans
saurgað lundu hafi,
borgun mundi blíð til sanns:
blóð og undir frelsarans.

Bót sú ein óbrigðul stá,
bili í neinu' ei trúin,
iðrun hreina ef iðkað fá
eðalsteina týr og gná.

Litlar fréttir færast þér,
fáfnis stétta gefni,





þó bleki sletti á blaðið hér,
bara rétt til gamans mér.

Gleðja veit eg þitt mun þel,
þöllin geitis róma,
hér um sveitir satt nú tel,
segjum heitir líði vel.

Þó að líði meinhægt mér,
misjöfn smíðast kjörin,
vetrar tíð sem vonlegt er,
veit eg kvíða fátæk er.

Má það klaga minnst um sinn
mörgum afar lítið:
gaf til baka í búrin inn
Bjarnar-dagur næstliðinn.

Efnin smáu alvaldur
oft svo náir blessa,
verð eg sjá það vonglaður,
víkur frá oss mótgangur

Menn þó hreysti handtökin
hafi af leystir vanda,
ættu treysta' á almáttinn,
ekki freista á manndóm sinn.

Vita sjáar vörin mín
vesöl náir þreygja,
samt ei þjáist þungri pín,
þakka má þau gæði fín.

Tára skara týrarner,
tjá sem snarast koma:
heilsufarið alment er,
eins og bara kjósum vér.

Heilsa' og tíð þá ágæt er,
unun lýð það veitir,
þó andinn stríði og holdið hér,
heims ei bíða glaðværðer.

Skepnur allar hýrast hér
heys við stalla inni,
klakinn fallinn fold á er,
fuglar varla bjarga sér.

Nægtum rænast heyin há,
hristast græn í skamta,
skepnur mæna menn upp á,
margar bænir kyrja þá.

Gátu stiftað get þessa:

garpar drifta mestu,
hungri svifti húsdýra
hér að skiftum missira.

Aðrir draga yfrið skamt,
er það baga vegur,
skepnur laga lítið samt,
láta á haga þær er tamt.

Að Bíldhóli hugur minn
hart vill róla tíðum,
þér hjá skjól og skemtun finn,
skykkju sólin dygð búin.

Þá að inni þínu skrið,
þróast sinnis gleði,
manninn þinn og börnin blíð
broshýr finn eg hverja tíð.

Ykkar dygða-atlot fljót,
ást og trygð eg skoða,
það mig hrygði þels í rót,
þvert ef brygðist eg á mót.

Eftirlæti öðlast lund,
orkað gæti slíku,

fáfnis stræta fríða grund
fengi kæta eina stund.

Eg í skyndi són fram set,
svefni hrindi á kvöldin,
þó til yndis ekki get?
orðin myndað geðs um flet.

Því forláta þig eg bið
þetta fátið ljóða,
glöð og kát með sóma sið
suðra bát nú taktu við.

Þú munt tarna virða vel,
vesalt barna smíði,
skoða gjarnan þitt með þel
það sem kvarnar grottu mél.

Virðast skrítið má af mér,
minnst til hlítar gaman,
svona lítinn seðil hér,
senda ónýtan til þín fer.

Ásta nærast atlot fín,
eins og bæri af hjarta
kveðju fær þú móður mín
manni og kæru börnum þín.

Ykkur geymi alvalds hönd,
öll á heimilinu,
frá svo streymi friðar grönd,
föst að reimist trygða bönd.

Að mín systir ástúðlig
öðlist vist hjá drottni,
já, óbyrstur ég bið þig,
Jesús Kristur, bænheyr mig.

Sólin banda glatt með geð,
gisti á landi friðar,
þig að vanda kyssi, kveð
kærleiks anda hreinum með.

Svo læt flakka sónar klið,
sízt er þakka bæri,
durnis-lakka-duggu' á hlið,
Dunkárbakka kenndur við.

Átta hundruð eitt þúsund
átta fundin tíu,
og sex á mundu, svella grund,
er seðill skundar þinn á fund.

Vatna glóða veitirinn,

víst ófróður næsta,
á þorra óðinn orti þinn:
eini bróðir skildgetinn.

Þagnar vörum því að bar,
þreytist hjörinn gróma,
brotnaði knörinn blindviðar,
brast af hjörum stýri þar.



## Ljóðabréf til Salóme Önnu Guðnadóttur í Winnipeg.

Sýnist lúið sálarfjör,
suðra búa vil þó knör
valinn nú í vesturför,
vart af trúum kostum gjör.

Elda rasta ágæt lín,
yndisfasta sólin skín,
orðum kasta eg til þín
ástheitasta dóttir mín.

Eyðist stríð þíns innra manns,
á burt líði sorga fans,
hrindi kvíða hjartarans
heilög blíða skaparans.

Elda sjóar eðla rein,
ekki þróist mæða nein,
æ þér glói unun hrein,
öll þín grói sálar mein.

Þar til mynda fjölnis fund,
fram sem hrindi þér í mund,
voga kyndils góðri grund
gæfi yndi nokkra stund.

Bæn í máta uppfylt er,
útilátin bezt sem fer,
nóabátur nú frá þér
náði kátum sendast mér.

Fyrir þann eg þakka hér,
þýðum svanna dygð sem ber,
innra manninn angur sker,
eigi kann að launa þér.

Okkar gleðja þú vilt þel,
þankann seðja mikið vel,
trygða keðju sízt þá sel,
sem mér geðjast fram í hel.

Hér skal mengi heyra' og sjá,

hvað sem gengur víða á,
hjarta strengi hlýt eg slá,
hörpu lengi stilla þá.

Huggar naumast huga minn,
heimsins glaumur margbrotinn,
því eg laumast alloft inn
í yndis drauma verelsin.

Þar er yndi oft að fá,
er við binda þankann má,
hér í skyndi hleyp þó frá
heimsins myndir gyltar sjá.

Sem reir af vindi viðsnúinn,
vill oft hrindast þanki minn,
því ýmsum myndum útbúin
oft er kyndug veröldin.

Þar eg ljóða Þóri um:
á þrönga og góða veginum,
í alheims þjóða annálum
yndi bjóðist sérhverjum.

Það er streyta um breiðan brý,
brögnum veitist gata ný,

ull að leita fyrðar frí
fjárhús geita komnir í.

Þannig villast virðar þrátt,
velferð spilla sinni brátt,
um sálar kvilla ei syngja hátt,
sem víð hryllir dag og nátt.

Þarna feil mín sjálf munt sjá,
sólarkeilu landa gná,
heims á deilu harða þá
hér óveila skoða má.

Vér ef sjáum neyð og nekt
næsta þjá, sem gjörir frekt,
bót að fá við synd og sekt
sýnist þá vel mögulegt.

Biðja hæða öðling á:
eilíf gæði síðar ljá,
iðrun bæði og trú skal tjá,
traust oss græðir Jesús þá.

Hér frá snúa huga skal,
hefja nú um annað tal,
menta rúið mærðargal
með tilbúinn gómafal.

Okkur líður öllum vel,
yndis blíða fagra hvel,
á skín lýði eg sem tel:
æðra' en fríðast gróttu mél.

Utan móðir elskuð þín,
oft er hljóð af vesöld sín,
hugsar fljóð þá hérvíst dvín,
himneskt bjóðist gleði vín.

Lífs þó teygist launþráður
langt er að þreyja sárþjáður,
á löngum vegi lafmóður
lausnardegi fagnar hvur.

Oft er tíðin indæl mér,
eins og lýðir kjósa sér,
sólin íðilfögur fer
fjöll og hlíðir gylla hér.

Vindur þaut um völl og gjá,
vill um brautir skaka sá,
fönnin skautar fjöllum þá
fylla lautir klaki má.

Hyggja' ótrauð um hreindýrs mar

með kappi nauðum burtvísar,
hross og sauðir hér og þar
hramsa brauðið Fjörgynjar.

Lömb og beljur heima hér
heyið velja láta sér,
stráin telja ófært er,
enga kvelja skepnu ber.

Ekki þar eg að því finn,
ef er garra vindurinn,
renna bara í ranninn inn
reiðhestar og folöldin.

Hringa makka og hlaupast á
hófa rakkar víða gá,
jörðin sprakk svo fótum frá,
fyrðar hlakka til að sjá.

Verzlun kenni vandræða,
verða menn að stórskulda,
af því þrennan óþarfa
ekki nenna takmarka.

Útlenzkt fæði munað með
minkar gæði, rýrir féð,

glingur, klæði og sitthvað séð
setur æði margt í veð.

Gamlan þróa sóma sið
seggir, þó að aukist rið,
af því sjóinn aflast við
ítar róa sels um hlið.

Frá sett maga Fjörgynjar
fyrðar laga skeiðarnar,
fiskinn draga og flyðru þar
fram um haga geirreyðar.

Desem annan eg það finn:
ótta vann oss bylurinn,
margur fann þá kalda kinn,
komst á ranninn varla sinn.

Norðan varð hann svo á svold,
í svipan barði meður vold,
vildi harða heljar mold
höggva skarð á Ísafold.

Margur smali mundi þá:
margar kvalir nauða fá,
margur talinn maður frá,
margur halur úti lá.

Margir lífið mistu þá,
margir kífið dauða sjá,
mörg vill drífa mæða á,
margt er víf með tár á brá.

Hretið stríða hjarðir þá
hrakti víða um dýra sjá,
sumar líða í dauða dá,
dimm því hríðin huldi á.

Margt er blakið mæðu sent,
mörgum bakast gæfa klént,
sumt var hrakið, frosið, fent,
fram um klakastrind alment.

Sumt ófundið enn þá er,
út um grundu þankinn sér.
sköflum undir hýma hér
hinsta blundinn laust við fér.

Þar að hrinda þanka má,
því um binda sárt eg á,
óþægindum flúðir frá
fanna strindis bauga gná.

Þar að styðja víst eg vann,

vil því biðja skaparann:
þrautum ryðja þrí-einan
þína niðja blessi hann.

Vonir glæðast elsku eims,
oft þó læðist tálið seims,
einhver gæði kostakeims
kunnir græða Vesturheims.

Að himna' alráði huga sný
hvar á láði sem eg bý,
á hans náðir feginn flý,
fæst svo þjáðum gleði ný.

Við þig tala mundi margt,
mörkin bala linna snart,
sumt tilvalið, sumt óþarft,
sæi' eg talinn þinn landspart.

Margt þó tala mætti hér,
mun óvalið sýnast þér:
óðar galið alt frá mér,
af því halur þagna fer.

Sendi' eg brag, sem búinn er,
björkin lagar glansa, þér,

nauða bágur blinaviðs kner
braut í dag við þagnar sker.

Brestur gróða mærðar mig,
mörg því bjóðast vinnu stig;
kveðja hljóður þá skal þig,
þorna tróðan skemtilig.

Ómynd játa alls konar,
óðar fátið sem að bar,
mörkin gráta mardallar
mér forlátið bögurnar.

Óskin grundast innra manns:
að sért fundin dygða glans,
eldahrundin eyjabands,
örmum bundin skaparans.

Alla þína ástkæra,
auðna krýni margfalda,
og eilífð skíni indæla,
ósk er mín um dagana.

Elda rínar eikina
eg fel mínum skapara,
öndu þína alsæla
aldir krýni þúsunda.

Allir mínir óska þér
eldarínar grund sem ber,
að nú tímar indæler
árs með skímu renni þér.

Hita keldu hrund í stað,
gelzt þá kveldi líður að:
láttu eldinn eiga blað,
engum seldu í hendur það.

Fögur tárin fellandi
fyrst að stár á takmarki,
þegar árið endaði
eg nam klára ljóðmæli.

Níu grundast tugir tér,
törgulundur hver sem er,
átján hundruð ártal hér,
og við bundin tvö hjá mér.

Elda rínar eðla gná,
óðar týnist mentin há,
gömlum þínum föður frá
færðu línur þessar sjá.



## Ljóðabréf til Ingveldar Guðnadóttur í Winnipeg.

Dóttir kæra, dygð og æru búin!
  til þín bærist hugur hýr,
  hér því færist bragur nýr.

Óðinshana upp eg spana nenni
  til að flana á fundinn þinn,
  fjarri vana þetta sinn.

Svo þér býð eg, silki fríða gefni,
  heilsan blíða, herrann kær
  hrygð og kvíða svipti fjær.

Hann þér unni, hringa sunna mæta,
  náðar kunnu nálægðar
  af nægta brunni miskunar.

Þó að ætíð eitthvað græta nái,
  úr því bæti herrans hönd,
  hrygð uppræti og syndagrönd.

Heims í bárum, hrygða tár þó streymi,
  fyndu' í sárum frelsarans
  friðinn klára hjarta ranns.

Öllum mínum óska' eg skíni friður
fyrir pínu frelsarans,
fjör svo hlýni kærleikans.

Innra hjarir óskin bara í huga,
hjá heim vari ljóst og leynt
lundarfarið Jesú hreint.

Þó að mær eg þér nú færi bögur.
auka hræring hugar mér
hjarta kæru bræðurner.

Yndið grær, því ástum nærist fornu
hvítur af hærum heim' á beð
hjarta kæru sprundi með.

Er því kátur oft um hatíðarnar,
viður pláta heima hér
helzt við fáta ljóðakver.

Fréttir smíða funa víðis gefni:
þannig líðan okkar er,
ekki kvíða neinu ber.

Flestra granna' og góðra manna hylli,
gefa vann oss drottinn dýr,
drjúga þannig gleði býr.

Mörgum kvilla menn við hryllir tíðum,
sízt þó fylli sorga flóð
sælu spilla fyrir þjóð.

Ýmsir deyja og lof segja drottni,
vel ef heyjað hafa stríð,
holl er þegin náðin blíð.

Um þá, kvendi, öngar sendi fréttir,
ei nafnkendir, þektir þér,
þeirri vendu að sælu hér.

Fróns á vanga fréttir ganga margar,
þar um banga brag ei kann,
bágt er fanga sannleikann.

Sér til yndis seggir binda trygðir,
hringa lindir vænstu við
valinn mynda kærleiks sið.

Seinna flesta saman prestar vígja,
sumir festum sitja í,
sundur brestur rauna ský.

Sumir skuldum safna huldum nærri,
hjarta kulda hretviðrin
hér um buldra tíðum finn.

Sumir rör í sældar förin ganga,
en misjöfn kjör um kaldan heim
koma' óvörum snót og beim.

Lengi tíðin, landið fríða ísa,
yfir blíðu breiddi sín,
bugaði kvíða sorg og pín.

Með nýju ári neyðin star í vændum,
hnýsu-krár um hafísinn
hér því gár að ströndum inn.

Seint á Góu seggir þróa fréttir,
hret um nó' og hafísinn
hér sem fló þá lengra inn.

Húnaflóa' og firði mjóa þekur,
landi snjóa ýtist að
ómun þróar stóra það.

Hér á vengi hlýtur mengi kvíða,
haldist lengi harðindin
heys á gengur stöpulinn.

Lengd og bráð í lízt oss ráðið bezta
hrinda tjáðum hyggju fans
hreint á náðir skaparans.

Eg í vetur, eins og letur birtir,
æfði betur ungdóminn
í að meta lærdóm sinn.

Fjörutíu og tveimur. því eg kendi,
sífelt nýja náð um bið
notin drýgja' af slíkum sið.

Það er yndi þar við binda huga,
börnum lyndi blíðka hjá,
blessun myndast þegi smá.

Kærleiks vel það kosti elur tíðum,
heppni tel eg hjarta ranns
hugar þelið frelsarans.

Undir náð er notin bráð hvert verða
hér af þáðu heilræðum
hjá þeim tjáðu smælingjum.

Hugsun, máli, og handar strjálu vikum
guðs útmála gæzku ber
gleði sálar þæga lér.

Sumartíð nú sýnist blíð upp runnin,
hér þó bíði hafísinn
hrinda kvíða góðviðrin.

Túnin gróa græn, en spóar vella
út um móa, eg fæ séð,
og heiðlóan syngur með.

Fuglar kvaka, fá sér maka' og syngja,
hrafnar vaka hreiðrum í,
hrognkels „bakur“ dregur ný.

Hrygnur sækja í hylji lækja og árnar,
meður spræku sporða köst
í sprettum krækja þær frá röst.

Hvergi smeikir hestar kreika' um dali,
og furðu hreykin folöldin
fara í leik við pabba sinn.

Ær til fjalla flestar fallað geta,
tína vallar blöðin blá,
bezt þeim falla grösin smá.

Sauðir fáir, seggjum hjá í haga,
lömb og smáu leika sér,
líkt sem strá í vindi fer.

Á bás, við fóður, bundnar tjóðurhælum,
kýrnar hljóðar kúra hér,
kúa gróður lítill er.

Sumir kátir segja máta betri
kýrnar láta' á haga hér,
hlaupa státnir kálfarner.

Ýmsir kvíða eldiviðar skorti,
fatast viðum hringa hér
handaflið að bjarga sér.

Eg má segja ekki heyin skorti,
týs var meyja mjög oft auð,
myndaði' fegin nóglegt brauð.

Burtu dó hann Bjarni Jóhanns niður,
öðlast ró í engla krans,
öndin fló til skaparans.

Þundur klæða þeim var gæðum búinn:
kafteinn bæði og kaupmaður,
kunni græða duglegur.

Aura val hans ei varð talið saman,
skipin, sali og sitthvað fékk
safnaði halur linnabekk.

Brá samt þegar bana-legan þrengdi,
og með trega iðrast vann,
alúðlega breytti hann.

Linna sýkja lundur ríkulega
gjöfum flýka gjörði þá,
gæði slík við mörgum brá.

Drottinn heitir dæma sveitir allar,
fullan veita friðinn kann
fyrir heita kærleikann.

Ísafjarðar Fríðu varð að meini,
sansa skarðast róin réð,
reyndi harðar þrautir með.

Sá oss skafti samt gaf aftur bata,
tauga kraftur veiklast vann,
varð sem haft á líkamann.

Varpa reynum vorri einatt hyggju
upp á hreina ástvin þann,
allra meina græðarann.

Grafarhjónin geta' á fróni sínu,
jötna-bón þó bresti tvenn,
búi þjónað litlu enn.

Og með sinni einni vinnukonu
því sem hlynna að búi ber
bresta vinnu að líkum fer.

Nam frá Hóli Helgi róla núna,
víst á hjóli velferðar
í vonarstóli lukkunnar.

Því án skaða þangað laðast aftur
meður hvað eitt kvikfjárligt
Ketilstaða Benidikt.

Þeir ótrauðir því um hauður skifta,
hús og dauðu hlutina,
hinn burt auðinn má reka.

Helgi mundi hjörva-lundi greiða
á þeim fundi fullkomnar
fimtán hundruð krónurnar.

Fleina-ráðar fá svo láða skifti,
fylgi báðum farsældin
fyrir dáð og kærleik sinn,

Linna-bynga lundar þvingast margir,
tilbreytinga tuskið við
um trall það syngja hafi bið.

Að Skallhóli ætlar róla Mangi,
fleygir kjóla furðu snar,
fær í rólið búskapar.

Fells á enda fleina bendir mæti,
hlýtur enda handtökin
hann með kenda dugnað sinn.

Hans og faðir heims frá glaður störfum
vék með hrað í himininn,
heiðurs maður góðvikinn.

Gufuskipin ganga hiklaust núna
inní krika Hvammsfjarðar,
hverfur hik sem fyrri var.

Oft í viku um þau strika fjörðinn
á sumum blikar segl við rá
sést og rykið hinum frá.

Þig að lesa, þreytir pésinn ljóða,
er viður kesju' ei vanda réð
vefja fés, sem getur séð.

Vísur þvætta við eg hætti núna,
því að kæti þitt ei geð
þó við bættist dálíteð.

Dínu linna dokk, þér inni kveðju,
Siggu þinni og fleirum frá
fyrst er kynnir ljóðaskrá.

Og í hljóði eins frá móðir þinni
kveðju góða flytja fer
falda slóð, sem dygðir ber.

Á sú hríni óskin mín og þeirra,
miskun skíni mæli' eg um
manni þín og börnunum.

Bræðrum þínum berðu mína kveðju,
æ þeim skíni sælu sól
sem að pínu hverju fól.

Hrygð frá bærist, huggun færist aftur,
herrans næri höndin fín
hjarta-kæra sonu mín.

Þar við lendir þankinn endilega,
víst þeim kendu vinum manns
varpa í hendur skaparans

Um krossmessu á nam klessa blaðið,
andinn skessu of mikið
eg á þessu forláts bið

Eg við fundinn Álfa-mundi-traðir
nítján hundruð tvö ár til,
týs á fundi gjörði skil.

Inn í dali, oft þó halur vendi,
hjá kvenvali kærstu mér
kýs eg dvala stundum hér.

Verð nú hætta viður slætti ljóða,
helzt þó kæfi hug og sál
heima þvætta bundið mál.

Mjög í skyndi minn við bind eg huga,
veita yndi einhverjum
áfram hrinda bögunum.

Angri sleginn ei þó megi vera
vildi' eg feginn fund á þinn
feta veginn þetta sinn.

Þó í flýti þinn ónýti faðir
saman brýtur blaðið hér
brátt og hlýtur senda þér.

Fengir þróa fram á Nóa-skipi
yfir flóa atlants hér
yndið gróa skyldi mér.

Bréf að fæðist frá þér gæða sprundið,
vetur bæði vor og haust,
vonir glæðir efalaust.

Þó minn andi þjóti landa milli
og fari í gandreið fund á þinn,
festur bandi er líkaminn.

Lít nú þessi ljóða versin stirðu,
ljúf og hress frá laufa þund,
lifðu bessuð hverja stund.



## Ljóðastef til Ásvalds Magnússonar.

Manstu vinur, manstu vinur,
mig nær hittir þú?
Fells við fagran enda, af flestum lýðum kenda
þar sem stjórnin, þar sem stjórnin
þrálofuð er nú.

Iðnar hendur, iðnar hendur
atorka og dáð
á þar einatt heima, ekki má því gleyma,
meðan byggist, meðan byggist
mæðra' og feðra láð.

Þú mig beiddir, þú mig beiddir
þér að senda vers
eitt á arkarblaði, æi það er skaði

ekki geta, ekki geta
yndis notið þess.

Þó eg sendi, þó eg sendi
þetta ljóða bull,
því að veit og vona, vel það fari svona
fyrir eirið, fyrir eirið
fái' eg aftur gull.

Einatt man eg, einatt man eg
okkar fyrri tíð
þá við sveittumst saman, sem mér þótti [gaman.
Þú stjórnaðir, þú stjórnaðir
þel með hlýast lýð.

Friður ríkti, friður ríkti
fyrða meðal þá,
aðrar yndis tíðir, enginn þar sem kvíðir
okkur síðar, okkur síðar
auðnast mun að fá.

Ef að sálin, ef að sálin
elskar guð og menn,
eins og þitt er yndi, einn og sérhver fyndi,
mundi batna, mundi batna
margra hagurenn.

Mammon þéna, mammon þéna
mörgum verða kann,
að því ekki gæta, eftir var að mæta
dómara sem, dómara sem
dæmir sérhvern mann.

Allir þurfum, allir þurfum
áminningar við,
einn upp annan hressi, elski, styrki, blessi
meður fagran, meður fagran
manna kærleiks sið.

Ó að bræður, ó að bræður
allir værum hér,
líkt sem vona' og vilja, vinir þegar skilja
eilífð langa, eilífð langa
indæl verði sér.

Biðjum allir, biðjum allir
bræðra syngjum lag,
friðu'r og farsæld dafni, fláttskapurinn kafni
náð oss geymi, náð oss geymi
nótt og sérhvern dag.

Margt í heimi, margt í heimi
megum tíðum sjá,

allir kjósa yndi, og það margur fyndi
ef vin og kærleik, vin og kærleik
vantaði ekki þá.

Vin og kærleik, vin og kærlelk
vanta tíðum réð,
alt svo yndi hverfur, allur lífsins skerfur
sýnist mæða, sýnist mæða
sorg og þrautum með.

Heimsins lánið, heimsins lánið
hverfult reynast vann,
sinnis ró er sæla, og samvizkan indæla,
það mun gleðja, það mun gleðja
þrávalt sérhvern mann.

Létt heilræði, létt heilræði
lízt að kenna mér,
en þau öll að halda, oft má þrautum valda,
víst hver maður, víst hver maður
verður gá að sér.

Ó, hvað eg er, Ó, hvað eg er
aumur bróðir þinn,
misjafnt margt sem geri, mér svo sjaldan
til að biðja, til að biðja [sne
um trú og kærleikinn.

Ekki dæma, ekki dæma
eg vil nokkurn mann,
sjálfur því er sekur, í syndum mörgum frekur,
fyrirgefa, fyrirgefa
fús því vil og kann.

Fyrirgefðu, fyrirgefðu
fánýtt þetta blað
instu eðlisparta, opna' eg þér og hjarta,
láttu heiminn, láttu heiminn
líta ekki það.

Vinnu-tími, vinnu-tími
víst er sérhver stund,
þróttlaus er að iðja, eins að vaka' og biðja,
þó í skúrum, þó í skúrum
þetta ritar mund.

Línur þessar, línur þessar
loks þér sendir þá,
Guðni grafar-sæði, í Gröf sem hefir fæði,
þetta sumar, þetta sumar
það sér líka á.

Innistaða, innistaða
oss var hjá í dag,

gagns til gjörist linur, góðra barna vinur,
sem þó gjarnan, sem þó gjarnan
sjá vill þeirra hag.

Þig og alla, þig og alla,
er þekkja kærleiks eim,
fel eg friðar höndum, friðarins á löndum,
eg vil síðar, eg vil síðar
aftur fagna þeim.



## Ljóðabréf frá Ásvaldi til Guðna.

Heill þig styðji heims um veg,
hjartans vinur kæri,
þess af alhug óska eg,
anda meðan hræri.

Sama hreina hugarfar
hjá þér einatt búi
og ásta greinir alþektar,
öll þig meinin flúi.

Þökk eg góða vanda vil
versa fyrir smíði,
kendi eg þinn kærleiks yl,
kvæðalist og prýði,

Kvæðalist þér lætur fín,
lífs af gleði fjáður,
sann-göfuga sálin þín
söm er nú sem áður.

Þrekið anda ber þú bezt,
blessan guðs þig styður,
græðir vanda meinin mest:
manndygð þín og friður.

Kærleiks ljósin ljúf og blíð
lýsa geðs um ranna,
af því ber þú alla tíð
ást til guðs og manna.

Löngum sefur hugar-hrygð
helzt er margir klaga,
þú hefir unnað ást og trygð
alla þína daga.

Hagnað þjóða að hafa stutt
heiðurs orð þér gefur,
mörgum góða götu rutt
göfuglyndi meður.

Hjá þér rara gæfan grær,

ginning fjærri kífsins,
þú hefir varizt vinur kær,
vel í stríði lífsins.

Hug að svífa sorgarský,
svo í hljóði stynur,
ó! eg gæti gengið í
góðu spor þín, vinur.

Bezt tilfinning mun það mín
mein þú vildir bæta
blessuð minning mætti þín
margra hjörtu kæta.

Oft um fræðir ást og trú,
öll svo mæða þrotni,
ungra glæðir anda þú,
upp að hæða drottni.

Trygða logi tignaður
trúr í hjarta lifir,
silfurbogi signaður
sé þér jafnan yfir.

Þér ánægjan þjóni há,
þrauta frí við sárin,

friðarblæju breiði á
blómleg silfurhárin.

Geð þitt hrindir .gremju tíð,
gleði myndar ríka,
það er yndi og unun blíð
ást við binda slíka.

Man eg kæra kærleik þinn,
korða stærir fríði,
ó, að væri andi minn
eins vel fær í stríði.

Hreina og blíða hjarta þitt
huggun tíðum gefur,
en í stríði ætíð mitt
aftur kvíði vefur.

Um að kvarta ei er kært,
angri snart þó hlaðist,
eg ber hjarta sárum sært,
svo að vart fæ staðizt.

Lukkan snjalla lýsir há,
lífstíð alla þína,
en dómar falla ótal á
ýmsa galla mína.

Búum siðar saman vér,
söngrödd fríð hvar hljómar,
þar sem blíða yndæl er,
eilíf tíð þá ljómar.



## Ljóðabréf til M. G. d.

Kæra fljóðið, Margrét mín!
máls af sjóði smáum,
þó eg ljóð til lagi þín
lista fróðleiks mentin dvín.

Guð, þig hressi höndin blíð,
heitt eg þessa beiði,
sæl og blessuð sértu fríð
svölnis vessa dygðug hlíð.

Þýtt af hjarta þakka fer,
þæga skartið trygða,
sem óspart þú sýnir mér,
svoddan vart eg launa þér.

Núna síðast sending þín
síðstu tíð um jóla
horfnum: kvíða, hrygð, og pín,
huggun smíðar þanka mín.

Hana blíðast þakka þér,
þöllin víðis funa,
þá mínn blíður þanki tér
þetta prýðis fallegt er.

Efnalítill eg í heim
enn þá hlýt að dvelja;
engum híti: auð, né seim,
ei mig þrýtur gleði keim.

Sending fríða frá þér hér
fæ eg tíðum skoða,
þá minn blíður þanki tér:
þetta prýðis fallegt er.

Hvað, sem grætir heims um stig,
herrans sæti kraftur,
yndi mætu auðgi þig
eins og kæta þú vilt mig.

Nógar annir eg hef hér
illviðranna milli,
skafla kanna úti er,
æsku þannig reyna fér.

Skoða gjafa góssið má

greitt án tafar milli,
oft þó stafa Ingu hjá
um það skrafa tíðum þá.

Mínum kindum út og inn
oft í skyndi renni,
hér við bind eg huga minn
húsin mynda þeirra' um sinn.

Oft mig langar, eg það finn,
út að ganga Hálsi,
til að fanga fundinn þinn,
freyjan spanga dygð búin.

Helzt mig segir hún mamma:
heimsku sleginn vera,
kunni' eg eigi athuga
ár og veginn mjög langa.

Þegar stór eg orðinn er,
ef svo tóri lengi,
vatns hjá glóru vefja þér
verð eg rór til gamans mér.

Til skemtunar verður vart
vatna funa gefni,

ljóða spuna masið margt
mig það grunar nokkurn part.

Verður brestur mælsku mér,
mun því bezt að hætta,
er nú verzt að ekkert hér
orðið sést til gamans þér.

Forlát bragar bullið hér,
björkin lagar glansa,
eg veit hagur er það mér
eí þú klagar þar yfer.

Pabbi og mamma máls af stig
mynda vann þér kveðju,
skila kann eg því við þig,
þökk með sama fyrir mig.

Lítil jara jula hér
janúar tíunda
saman barin illa er,
ártal þar ei munum vér.

Ára rakkinn austra má
út að flakka Hálsi,
Dunkárbakka Friðjón frá
fer að lakka kvæða skrá.



## Á sumardaginn fyrsta 1888, til D. H. Bachmann í Winnipeg.

Lof sé alheims lífshöfund,
sem líf mitt geymir hér,
og gaf hin þreyða gleðistund
svo guð-blíð upp rann mér.

Eg man þá blíða morgunstund
og móður gleði tár
á okkar fyrsta kærum kund
með kossi er flaut um brár.

Sú æfimorguns unaðs stund
varð offur guði kært
og auðmjúk bæn af bljúgri lund
sem barn mig fékk þá nært.

En ó! hve fjölmörg unaðs stund
mér auðnast síðan vann,
hve sonar gjöfin gladdi lund,
sá gaf það bezt veit hann.

Og nýja gleði næstu stund
ber nú hin sama gjöf,
minn væna Hjört, minn kæra kund,
eg kyssi yfir höf.

Svo blíðum sonar kærleiks koss
eg kvaddur heitt nú er,
því höfin kunna ekki oss
alveg að skilja hér.

Vor ástin hrein og alvarleg
hún yfir hafið nær,
og engan hræðast óra veg
né örðugleika fær.

Hún nær frá tíma eilífð í,
því eðli guðlegt hlaut,
og guðdómleg hún glansar ný
sem gull í hverri þraut.

Hún nær frá eilífð tímans til
á tímans rósir hér
og leiðir fram það ljós og yl,
sem líf og sæla er.

Þá sælu og líf vér sjáum bezt
á sannri og hreinni ást,
í stríði og þraut hún megnar mest,
í mannraunum ei brást.

Eg sé þig blíði son minn kær,

eg sé í hjartað innst,
minn andi til þín allvel nær
við anda þinn fær minnzt.

Í sorg og gleði, í sælu og þraut
við sérhvert atvik hér,
en allra helzt þá yndis naut
eg alls þess nýt með þér.

Nú ljómar fögur sumarsól
og sálu gleður mín
og gyllir heim og himinból,
af hjarta eg mynnist þín.

Sem himna drottins líf og ljós
hans lýsir náð í dag,
sannheilagt gleði sigurhrós
þinn signi allan hag.

Gefist þér sumar gleðilegt
og gæfu hlutskifti
fyrir vors Jesú neyð og nekt,
hans nafn það staðfesti.

Með kossi blíðum kærleikans
þig kveður, sonur minn,

í friðar nafni frelsarans
faðir elskandi þinn.



## Frá móður, til dóttur í Winnipeg.

Yfir hið mikla Atlanzhaf
hraðfleygum hug til þín
hreyfi eg, dóttir mín.

Barnkunna hjartans móður mál
þar tala eg við þig,
en þú ei heyrir mig.

Eg veit þið blessuð börnin mín
barna-mál hjarta hreins
heim til mín kvakið eins.

Fjarlægð ei hindrar kærleiks kraft,
hann bindur sál við sál,
segul-magnaðri en stál.

Hjartkæru blessuð börnin mín,
böls meðan braut eg fer
ó, biðjið fyrir mér.

Það bezta hnoss er bænin heit,
stigin frá hjörtum hér
í himinn þrengir sér.

Færir oss aftur hugar hægð
frelsarans hjarta frá,
fyr biðja kendi sá.

Þú hefir dóttir þegar lært:
merki sitt mála veit
móðurást blíð og heit.

Hún er almættis undraverk,
dýrri og fegri en flest,
því fórnar sem á bezt.

Það er að biðja góðan guð,
sem öll vor andvörp heit
einn heyrir, sér og veit.

Hann þinnar æfi hverja tíð,
nýrri blessun og náð,
ný blómgvi alt þitt ráð.

Sem falli eins og vordögg vær
yfir þinn allan hag
alt eins um nótt sem dag.

Ljómi sem himin ljósin skær
og litfagur lilju glans
þín lukka og heiðurs krans.

Þíns anda fjör og trúar traust,
guðhræðsla, dygð og dáð,
sem daggarblóma sáð.

Sem heilags anda hreint er verk,
akri þíns hjarta í
ávaxtist hvern dag ný.

Guð leiði þig í gegn um tíð,
síðast með sigurhrós
í sitt eilífa ljós.

Það er vor von og örugg trú
að okkur öllum þar
unni guð samvistar.

Logdapra trúar línkveik vorn
guðs andi glæði hér,
að gætum síðar vér.

Sagt: hér erum og allir þeir
áður sem gafst þú oss,
ó! það fagnaðar hnoss.

Móðurástin svo biður blíð
hjartað meðan er heitt
hún verður óumbreytt.

Dýrmæta elsku dóttir mín,
guðs ástar gjöfin mér,
guðs friður sé með þér.

---

## Kveðja frá dóttur, til móður á Íslandi.

Heim yfir Atlants hafið breitt
hugur oft hleypur minn
hiklaust í arminn þinn.

Þá faðma eg þig fast og heitt
hugar með hlýjum yl,
hjartað þó finnur til.

Man eg æ þína móðurhönd,
er mjúk vafði mig og hlý,
meina eg var þá frí.

Þá kveið eg engu þitt við brjóst;
nú svíður sárið margt,
því synda stríð er hart.

Ó! hvað mig langar fá þinn fund
áður en heljan hörð
hrífur mig burt frá jörð.

Eg veit þitt auga tárast títt,
ó! hvað þín ást er heit,
einatt það sé og veit.

Ó! Jesú Kristi blessað blóð
sykri þér sérhvert böl,
fyrst sjálfur leið hann kvöl.

Ó! hjartans elsku móðir mín
guðs náðar gæzkan blíð
gleðji þig alla tíð.

Kærast í anda kveð eg þig
af huga, hjarta, sál,
hreint er það barna mál.

---

## Staka úr sama bréfi.

Þar af margt að þrengir mér,
eg þarf ei kvarta fyrir þér,
innri parta angur sker,
oft mitt hjarta sundur mer.

## Endurminning lífsins, frá L. Ó. d. til barna í Vesturheimi.

Grátandi kom eg að guðs vild í heiminn,
gálaus oft lifði bernskunnar tíð,
eg má nú gráta því eg var svo gleymin,
eg mundi' ekki' ætíð öll loforðin fríð,
leiksvið mitt hélt eg að veröldin væri,
varla nein þekti syndanna gjöld,
en heilagar skyldur og hátíðleg særi
hugfast mér verður við æfinnar kvöld.

Þegar að var eg á átjánda ári
í drottins víngarði fanst mér eg þá,
en brosgleði heimsins oft blandast með tári,
í brjóstinu móður hjartað réð slá,
eg lít yfir veginn, á margt er að minnast,
mér, sem var lánað hjartanu kært,
um stund er horfið en aftur mun finnast,
ó! hvað sú vonin bendir mér skært.

Varð eg að missa vininn minn trúa
frá vegferðar störfum um hádegis mund,
þjakaðist sál mín af sorganna lúa,
sem þó að nokkru bætt er um stund,
bezt veit sá reynir hvert sárin ei svíða,
sem að mjög ganga hjartanu nær,

þó er bezt hverjum þolgóður líða
þar til er græðarans lækningu fær.

Sálar og líkama þrekið vill þverra,
þegar er slitin míns anda tjaldbúð,
í víngarði sínum vildi minn herra
vinna mig láta því fjörið er lúð,
ræktaði' og vökvaði' eg kvistina kæru,
er kringum mig spretta með gleði eg sá,
ó! guð mér gefðu að ávöxt þeir bæru,
eilífum þroska svo mættu vel ná.

Sex eru börn mín sofnuð úr heimi,
sælust þó lifa eg til þeirra næ
og þeirri stundu aldregi gleymi
aftur þau líta með gleði nær fæ,
árin og dagarnir óðum svo líða,
að mínu takmarki skunda eg fljótt,
engu skal lífsins andstreymi kvíða,
armæðu dagsins, né társælli nótt.

Fimm eruð horfin í fjarlæga staði,
fegurðin lífsins og blóminn hvar stár,
en syrgjandi bið eg að sálina ei skaði
sollurinn heimsins ginnandi og flár,
haldið þið ykkur börnin mín blíðu

með bænheitu hjarta að frelsarans mund,
munið, hann opna sína lét síðu
saklaus, svo nyti þess iðrandi lund.

Bænina mína frá brennheitu hjarta
bið eg að heyrirðu, frelsari minn,
lífs míns öll afkvæmi ljómandi skarta,
líta mér veittu við hástólinn þinn,
meðan að lifi þér vil eg þjóna,
það veit minn andi þó hvikul sé lund,
hugsun þá láttu hjartanu gróna,
hérvistin líður að eilífri stund.

Andi minn fleygist um loft, haf og löndin
leitandi' að ykkur við vesturheims-skaut,
en hel þegar slítur holdlegu böndin,
hærra hann flýgur of stjarnanna braut,
þar munum hittast með hjartans fögnuði,
hvert annað þekkja sem móðir og barn,
lystugast syngja: Lof sé þeim guði,
er leitar að sínum, miskunnargjarn,

Erfingja mína þó sjái eg sveima
sjö mig í kringum, með glaðværa brá,
hugann oft náir til dagláta dreyma:
drottinn sem gefur, svipta eins má,

hrygðin og gleðin, því blandast með blíðu
brosið og tárin mér leika um kinn,
sem María döpur við sonarins síðu
sá með vongleði í himininn inn.

Gef þú mér Jesú eg glati ei mínu,
glatast lát engan, frelsari minn!
heilögu boðum hlýða vil þínum
halda mig fast við kærleika þinn;
tilfinning hjarta míns þú sem að þekkir
þér fel eg hagi barnanna mín,
holdlega sinnaða heimurinn blekkir
hrædd er eg þangað til ginning hans dvín.

Ó! að þið mættuð andvarp mitt heyra
elskuleg börn mín í fjarlægð og nær,
vitið að faðirinn opnar sitt eyra
fyr' allra' ykkar bæn, sem að honum er kær,
eg fel ykkur honum í meðlæti og mæðu,
mér því bezt reynist hjálpin hans blíð,
á holdlegu fóðri og himneskri fæðu
hann ykkur svali um ókomna tíð.



# ANNAR FLOKKUR.

## SAKNAÐARLJÓÐ OG EFTIRMÆLI.

---

### † Hjörtur Guðnason, druknaði 16 ára.

Æskunnar vorið er indælt og bjart,
öll lifna blómin með fegursta skart,
sólgeisli vonar þeim sendir þann yl,
sem að á jörðunni' er hlýjastur til.

Kærleikans sólin er eldheit sem ást
elskandi hjarta, er lýðum þó brást,
um hádegi er loftið heiðríkt og bjart,
helkulda þokan, sem byrgir þó snart.

Æskunnar fjörið, sem upp ljómar hug
með atorku, kjarkinum, þreki og dug,
helkuldi dauðans nær hastar þar á
það hjaðnar sem bóla og fellur sem strá.

Skapa- þá -dægur og skammdegis nótt
skyggir á sumarsins fegurstu gnótt
og höfuðskepnurnar hefja sitt stríð,
hver fær þá staðizt af syndugum lýð?

Ástin og dauðinn þá út ganga í stríð,
oft falla tárin hjá veikbygðum lýð,

en kærleikur lífsins kórónu nær,
kollsteypti dauðanum frelsarinn kær.

Lambsins í brúðkaupi' er ljómandi vist,
líkn er og svölun hjá bróðurnum Krist,
í unnustans faðmi er yndi og skjól,
ei byrgir dauðinn þar gleðinnar sól.

Heimslindin kalda er hrekkjótt og flá,
hart fellur alda dauðans í sjá,
en uppsprettulindin sú eilífa' er góð,
afþvær þar syndir vel Jesú Krists blóð.

Hjartans, ó! elsku Hjörturinn minn,
hart gengur vatnið að sálunni inn,
náðþyrstum svala mér, náðstærsta lind,
er náð lætur fala í hvers konar mynd.

Heimsins er yndið hverfult og valt,
hefð, auður, vinfengi' og lánið gjörvalt,
dauðinn er snarráður, dulráður þó,
deyðir hann þrálega' í vötnum og sjó.

Líkaminn, hvernig sem lætur sitt fjör,
lostinn af dauðans er sárbeitta hjör,
sálina skaðar þó sorgin ei hörð,
sér því hún hraðar í burtu frá jörð.

Frá fæðing til dauða er frelsarans hönd
fullsterk að takmarka líkamans grönd,
sálin um eilífð hjá syni guðs skín
seinasta' og fyrsta er huggunin mín.

Hann, sem að gefur og hrífur burt frá
hvað eina stundlegt, er gjörði oss ljá,
oft lét í heiminum útflóa tár,
með eilífri gleði þerrar svo brár.

Æskan sé viðbúin, ellin má til
út sér að varpa dauðans í hyl,
miskunn guðs biðjum um morgna og kvöld
mýkja og lina vor syndanna gjöld.

Alt er það gott, sem að guðs náðin vill,
gæzkunnar ráði sjálfur ei spill;
einn veit hvað sálinni um eilífð er bezt,
á andlegu hlutunum sjónina fest.

Ljúft er nú sál minni lausnarans ráð,
líkn hans mig fel eg og blessaðri náð,
skynjar svo lítið hér skynsemi mín,
en skýrast mun sjónin þá hérvistin dvín.

Hrygðir oft mæta á hérvistar tíð,
sem holdinu' er armæða, barátta, stríð,

en sálin sig gleður við vissustu von,
að vinna þó sigurinn guðs fyrir son.

---

## † Tómas.

A engilvængjum sál þín er svifin,
sæli bróðir, frá mæðunnar heim,
sit eg eftir sorgunum drifin,
sárið mér blæðir af skilnaði þeim.
Önd þín er flogin til eilífðar sala,
alskær þar ljómar hjá bróðurnum Krist,
unun mér veitir um það að tala.
Ó! hvað þú fékst þar dýrlega vist.

Sár þó mér yrði saknaðarstundin,
sæluríkt er að vita af því,
holdið einungis hægan fékk blundinn,
heilbrigð er sálin þín guðs faðmi í,
titrandi stend eg með tárvota hvarma,
til þín mig langar úr sorganna dal,
ég legg mig auðmjúk í lausnarans arma,
lífsvonar trúin það flytja mig skal.

Ó! hvað þú varst mér ástríkur bróðir,
elskan er sterkari dauðanum. Því
hugur minn fylgdi þér helvegs um slóðir,

hvergi nam staðar gröfinni í.
Önd mín sér lyftir á trúvængjum traustum
til þig að skoða og dýrlegan stað,
líðst þó ei mínum líkama' óhraustum
líta með holdlegu augunum það.

Vel trúu þjónanna verðlaunin beztu
veit ég að hlotið hefirðu nú;
þú hafðir guðrækið þol og staðfestu,
þýðlynda bænrækni' og örugga trú,
komdu, því blessaður, barn föðurs mæta,
blíður mun Jesús þig sagt hafa við,
þú baðst oft auðmjúkur guð þín að gæta,
svo gefi' eg þér sælu og eilífan frið.

Senn kemur kveldið, þá sofnar likami,
sál mín sér hraðar að komast til þín,
mæðan þá hverfur og allur lífs ami
eilíf hvar sælan ljómar og skín,
en ég er skyldug þolgóð að þreyja
þar til að faðirinn leiðir mig heim;
það er svo fullvíst að fæ eg að deyja,
frelsarans undum sál mín ei gleym-

---

## † Guðmundur Tómasson.

Horfinn er vinur um helkalda braut,
hver ein hans fráliðin mæða og þraut,
eftir ég stari á örlaga strönd,
uppgefin bara því veik er mín önd.

Ástkæri vinur, sem unnir mér heitt,
unni' eg þér hvíldar, því holdið var þreytt,
sálin þín gleður sig guðsríki í,
gjörvalt er horfið burt mæðunnar ský.

Ó! hvað mig langar að fara' á þinn fund,
finst mér sú yrði mjög gleðileg stund,
nær fengi' eg þig líta við frelsarans stól
þar formyrkvast aldregi gleðinnar sól.

Hér er svo skuggsýnt oft heiminum i,
harmanna skúrir og mæðunnar ský
byrgja mér kærleikans blíðustu sól,
blessaðan unað og gleðinnar jól.

Margs er að minnast um afliðin ár,
indæll mér varstu, en saknaðar tár
byrgja svo fjölmarga blíðunnar stund,
er barst mér að höndum nær kom á þinn fund.

Fram leið svo æfin í indælli von,
þú elskaðir guð og hans kærasta son
og heilagur andi var huggari þinn,
en háleit sú þrenning er skjöldurinn minn.

Drottins oft gekkstu glaður í hús,
til guðs orða söngva var hugur þinn fús,
heim kominn aftur varst heimilis vörn,
hjarta míns yndi, og gladdir þín börn.

Þó mér og börnunum saknaðar sár
svíði til dauða um stundir og ár,
læknirinn þekkjum, sem líknaði þjóð,
lífkröftug svölun er Jesú Krists blóð.

Hrygg þó við mænum í himininn inn
heilaga gleði í brjóstinu finn,
innan skamms tíma úti' er vor neyð,
því yfirvann Jesús minn syndir og deyð,

Legg eg alt ráð mitt á lausnarans vald,
líkami aumur er sálunni tjald,
þegar það fellur mun höndin guðs hlý
heim flytja sálina ríki sitt í.

Vil eg hér þreyja vonglöð í trú,
veit eg að nálægjast stundin mun sú,

nær fæ eg þig líta í unaði enn,
ektaskap halda og loforðin tvenn.

Ó! hvað oss gleðja mun unaðar-tíð
aftur að finnast, og börnin vor fríð,
lof syngja drottni um aldir og ár,
hvar öll gleymist mæða og sorganna tár.

---

## Andvarp saknandi móður.

† *Stefán Bjarnarson.*

Heyr til mín, heyr til mín, herra minn!
sorgin sker, sendu mér soninn þinn,
hann mig leiði út og inn
öðru vísi hvild ei finn,
þá augað grætur ástvin sinn, ástvin sinn.

Gaf og tók, gaf og tók, guð drottinn!
styð mig nú, í sterkri trú, við stólpann þinn,
standa þar til frið eg finn
frelsuð eins og móðirin,
sem þér var kærust, Kristur minn, Kristur
minn.

Hrygðin sker, harma ber, heimurinn,
himinn í þá huga sný og huggun finn,

flý eg nú í faðminn þinn,
frelsari og Jesú minn,
hvar móðir finnur soninn sinn, soninn sinn.

Herra trúr, hlífðar múr, hrygg er lund,
soninn minn, sízt eg finn, á svella grund.
Vernda mig í vöku' og blund,
veit eg nálgast dauða stund,
og þá kemst eg á hans fund, á hans fund.

Vilji guðs, vilji guðs verði á mér,
sorgin þó, sorgin þó, sárt mig sker,
eilífð, sem á eftir fer,
endalausa gleði tér
hver einn vini sína sér, sína sér.

Þolinmóð, þolinmóð, þreyja vil
veiklast trú, tekur nú, um tímabil,
vegu drottins varla skil
þá varpast barn í dauðans hyl,
frekt því sálin finnur til, finnur til.

Eilífð löng, eilífð löng, eftir fer,
sorgin þá, svift er frá, sýnist mér
eilíf náðin aldrei þver,
endurgelzt þar hrygðin hver,
sem í þjáir heimi hér, heimi hér.

S tefán minn, Stefán minn, storð réðflú
líkt og sól, hjá lambsins stól, hann ljómar nú,
efalaus það er mín trú,
„yður fer eg stað til bú“,
mildi Jesú mæltir þú, mæltir þú.

Legg eg nú, legg eg nú, líf og sál
í guðs hönd, með efnin vönd, þá eyðist tál.
lífs- nær -reisa linnir hál
líka bergi dauða skál,
en himneskt öðlast heyrn og mál, heyrn
og mál.

Hugur minn, hugur minn, til himna svíf,
hjartans nú í helgri trú, hrygðir klýf,
og svo byrja eilíft líf,
áður linnir heimsins kíf,
vís þá guðs er vernd og hlíf, vernd og hlíf.



## † Sæunn Jónsdóttir.

Svifin er sál til sælu
Sæunnar með ánægju,
búin er blíð að stríða,
blessuð verðlaunum raunar,
gleður sig nú hjá guði,

gleymd er armæðan skæða,
kross bar fyr eftir Kristi,
kvartaði' ei þolugt hjarta.

Varpast hold veikt í moldu,
að vísu mun heilt upp rísa,
samtengjast aftur sálu,
sjá vini í lífi hinu,
blíðum, þá breytast tíðir,
börnum mót taka og maka,
er trúlynd þar til sig búa,
en treysta Krists forþénustu.

Hreinlynd var Sæunn sáluð,
sí djörf í orði og störfum,
elska vann ektamanninn,
ást-gjörn að stjórna börnum,
hjúum hlýlynd á búi,
hjúkraði mjúkast sjúkum,
glaðlynd oft gesti hresti,
gjalda vildi rétt skyldur.

---

## † Hólmfríður Jónsdóttir.

Dymmir í sölum sólbjartan daginn,
sigur á skúr um hádegis stund

gengur um miðdegi geislinn í æginn,
grúfir af sorgum in vonglaða lund
ein því er horfin vor ástkæra systir,
upp héðan burt frá mæðunnar heim,
elskhugi hennar svo einmana gistir,
eilífa fundinum sál mín ei gleym.

Hólmfríður Jónsdóttir hvert er nú farin,
hrifin frá manni og börnunum sín.
Eftir þér mænir ástvina skarinn,
of stutt er þótti hérvera þín;
þú hefir flúið hið forgengilega
og fullkomlegleikans komizt í vist,
hrósar nú sigri, það heftir vorn trega,
í himneskri sælu, þó fyrir Krist.

---

## † Finnur Sveinsson.

Hér er fallinn hetjumaki,
hans því minning endurtaki:
hreysti, framtak, þrek og þor;
þau í förin feta vilja
fúsir þeir, er sjá og skilja
áður gengin gæfu spor.

---

## † Sumarliði Jónsson.

Hvað er svo heitt sem hjartans vina fundur
nær höfgi dauðans særir brjóstin þreytt,
ástaböndin eru skorin sundur,
ekki skemtir heimsins fegurð neitt,
hann, sem áður hérna prýddi salinn,
hvílir þarna: dáinn, kaldur ná.
Fyrst við sjáum síga skúr í dalinn
setjumst allir þar og vætum brá.

---

## † Sigurlín Sigurðardóttir, gift fyrir 1 ári.

Æ! hvernig skal eg nú aftur á minnast,
þá eg var hér staddur næstliðið haust?
sorgin og gleðin oft samhliða finnast,
sýnist mér flestalt bundið og laust;
alvísa föðursins forsjónar vegir
finnast oft þungbærir táranna' um dal,
allan vorn vilja að einu hann hneigir,
upp, upp til vinanna dýrðar í sal.

---

## Við fráfall unglings.

Lystugt var í lífsins aldingarði
leika sér við dygðum prýdda sál,
þó fölni líkams fegurð áður varði,
falslaus elska varð ei neinum tál;
kærleikurinn kólnar ekki í dauða,
hver mun svala þeirri hjartans lyst?
Hann, sem leitar hinna týndu sauða,
hirðirinn vér þekkjum, Jesúm Krist.

---

## Síðasta kveðja til systkyna, er fóru til Vesturheims.

Æ! nú hlýt eg við ykkur að skilja,
áminning seinast gefa þá vil:
aldrei við vininn eina að skilja,
með ánægju' og farsæld þá gengur alt til;
hann heyrir og sér, hvað hugsið og talið,
hann hegnir og launar, trúið þið mér;
með góðri breytni sálunni svalið,
samvizku friðurinn dýrmætur er.

---

Öruggur eg einn þess bið
ykkur hafa' í minni,

hlýt nú skilja vini við
víst i hinzta sinni.

---

## Til systur.

Ó! mín systir eina,
eg þig sjaldan finn,
en huggast hugur minn,
nær fæ eg fund þinn hreina.

Víst eg fæ minn vilja,
þér vera síðar hjá,
heims nær þrýtur þrá,
en sárt var samt að skilja.

Æ! þín dygðin dýra
dæmi ljóst sé mér,
hvar sem kem og fer,
hjart-kær systir hýra.

---

## Til sömu.

Svíðandi forlögin systir mín kæra,
sóttu og tóku þig burtu frá mér;

heilagi frelsari láttu mig læra,
líkjast að þolgæði og stillingu þér;
maður hver finnur til meinanna sinna,
minsta þó tilfinningu eg ber,
tárin oft svala og sálunni brynna,
á samfundinn eilífa eg mænandi er.

---

## Þokkaminning.

Nú er þokki fallinn frá,
feigð réð okkur skilja,
lengur nokkuð endast á
eg að drottins vilja.

Feigðar grófu forlögin
fjörið sljóa ýta,
hjörtinn þófa mundu minn
mér úr lófum slíta.

Nú að snjáar margt til meins,
mig sem á vill bíta,
ég mun fráleitt annan eins
augum fá að líta.

Neyðarstandið nú vill þjá
nokkuð blandast kvíða,

fótgangandi eg fara má
fram um landið víða.

Fjörið stríða faxa hund
fyrst nam prýða lengi,
fékk hans íðil lipra lund
lof hjá fríðu mengi.

Þægur léttur, þolugur,
þýður nett mig bar hann,
fleygði slettum fótlipur
frægð svo mettur var 'ann.

Yndi bauð mér eftir vild,
eins ótrauður þótti,
kreika' um hauður kunni' af snild
klárinn rauðhöttótti.

Yndislegur oft nam knár
aðra sigra gera,
náði mig í nítján ár
næsta liðugt bera.

Þreki búinn sá var svo
sókn fram knú í hæfi,

árin þrjú og tugi tvo
treindist nú hans æfi.

Faxahundur bezt mig bar
blóms um ·grundir fínar,
oft þá fundust indælar
unaðsstundir mínar.

Lof sé þeim, er oft mér ann
ama gleyma kjörum,
ljóð þá einatt liðugt spann,
lét þau streyma' af vörum.

Mér til yndis oft fram rann,
ömun hrinda þráu,
sem fífa' í vindi fjúka kann
fjalls nm tinda háu.

Af því hann af öðrum bar
oft að mörgu leyti,
legstað fékk þá liðinn var
líka í helgum reiti.

Þá upplýsist lífið manns
lengi prís svo tjái,

tel ég vísast holdið hans
heilt upprísa nái.

Fylgja réð á bana beð
birni-keðju' óseinum
hann, sem gleður garpa með
gulli' og eðalsteinum.

Hans að minning gleddi geð
gauts á kvinnu vildi,
af hendi inna eg þó réð
útför minni' en skyldi.

Prýði bús var makka már,
minning fús hans geymi,
ása-brúsi opin stár,
elfan krúsar streymi.

Misjafnt falla forlög tvenn
fjarri skjalli' og drambi,
komi allir afbragðsmenn,
ölið svalli' og þambi.

Þegar seinast súpum á
svala hreinu geði,
hesta reynum hrausta þá
hýra' að treina gleði.

Hart sem okkar hugur fló
hestar brokk á skundi,
eins og Þokki enginn þó
í þeim flokki mundi

Bragar þrotið erfi er,
eg heim pota nenni
í mitt kot og kúra fer,
hvílist votur penni.

---

## Blesa-minning.

Gildur korða — hver einn — ver
hvað sem þorði spjalla,
hefir orðið hetja hver
heljar storð á falla.

Lífs frá dóli dregið fær
dauðans gjólu kaldi,
alt sem róla' og andað fær
undir sólar-tjaldi.

Einn ég knáan átti jór
aldurs háan fríðan,
helzt mér brá, er hann burt fór
hels- í -sjáinn víðan.

Annar hestur eins ei sést
oft þó hrestur ríði,
lífs um frestinn bar mig bezt
Blesi lestar prýði.

Rauða hárið Blesi bar,
beisla-márinn fríði,
bana-ljárinn bitur skar
beztu klára prýði.

Jarða lét eg horskum hjá
hlyni setra japa,
líkams tetrið andað á
amtmanns setri Stapa.

Alt ef síðar endurrís
eins fer prýði jóra,
gleðin fríða verður vís
við laus kvíðann stóra.

Yggjar-snótum oft sá vann
undan þjóta pípur,
vakur, fljótur, hraustur hann,
harla fóta-lipur.

Oft lét feta faxa jó
fíls á setri' í haginn,

enginn betur Blesa þó
bar mig vetrardaginn.

Þá huldist gata húmi' og snjó,
hvergi á latur skeiði,
fóta hvatur fékk hann þó
flestar ratað leiðir.

Yndi mesta fékk við fest
fáki beztum ríða,
öli hrestur oft þá lézt
engum bresti kvíða.

---

# ÞRIÐJI FLOKKUR.

## BRÚÐKAUPSKVÆÐI O. FL.

---

### Í brúðkaupi.

Gleðjum oss, gleðjum oss, glauminn staupa
viður,
syngjum þá, mest er má, mjög hver annan
styður;

við félagsskap flýr burt tap, er fyrst um
þankinn biður
og á milli öli rennum niður,

Hjónaskál hressir sál, hýrgar snót og drengi,
leikum oss láns ei hnoss lénast ætíð mengi,
þessi stund lífgar lund lénar yndis gengi,
en það má samt ekki vera lengi.

Iðja þarf, stunda starf með stilling flesta
daga,
holl með ráð, dug og dáð dável alt til laga,
efla bú ágæt hjú með alúð til sín draga,
af fremsta megni forðast allan baga.

Neyðartíð nú er stríð nokkuð fram hjá gengin,
aftur þýð, blessuð blíð bót er við því fengin,
gleði, súr, skin og skúr, skiftir um við
mengi,
þrenning hárri því vantreysti engi.

Þrenning blíð blessi fríð brúðhjónin og alla,
sem með trú, traustri nú, til guðs náðar
kalla,
þó gegnum neyð liggi leið, lát ei hugann
falla,
ykkur bregzt þá aðstoðin hans valla.

Klemenz minn! kunninginn, kæri félags
bróðir,
lukkan þér hlotnist hér heims um allar
slóðir,
ósk sú mín er til þín, þér auðnist hlutir
góðir,
forsjón guðs þig faðmi eins og móðir.

Dóma góð! dygða fljóð, drottins náð þig
styðji
að gera alt gott ávalt, gjarnan hver þess
biðji,
til farsællrar framtíðar — sem frama verkin
iðji,
af þér spretti afbragðsgóður niðji.

---

## Veisluspaug þá 2 bræður giftust.

Værum vors á degi,
virða gleður margt,
lifnar lands á teigi,
lauf og blóm með skart,
röðull geislum gyllir þaug,
landsins dýrin leika sér
lystugt meður spaug.

Lilju' og grösum grænum
gefst þá fjör og líf,
skarta í skrúða vænum
skrautlegt svo sem víf,
í sinni dýrð hann Salómon
vart eins klæddur var að sjá,
inn vísi Davíðsson.

Eg kann ei upp telja
alt náttúru skart,
er vill oss drottinn velja,
veglegt bæði og þarft,
eina sögu eg þó vil,
yður segja öllum hér
eins og gamans til.

Ég gekk út um skóga
árla á sumar tíð,
skorti' ei skemtun nóga,
skein þá sólin blíð,
vermdi grasa fríða fjöld,
aldingarða eg þar sá,
ei var nærri kvöld.

Í aldingarði einum
eikur vaxa' og tré
meður grænum greinum;

á gullhörpu strengi
lystugt mjög var leikið þar,
gladdist hugur guma þá,
glönsuðu jurtirnar.

Ég sá standa eikur
afbragðs fagrar tvær
bros um limi leikur,
lukkan studdi þær,
því af góðri greru mold,
ávöxt færa ágætan
Ísa kaldri svold.

Sá eg svo þar eftir,
sannan pálmavið,
er sáðgras herrann setti,
sinn hjá hverrar hlið,
fyrðum þótti fögur sjón,
brúðkaups-degi eins og á
ástum bundin hjón.

Hver réð hugsa' og tala
hér er skemtilegt,
um þenna blóma bala
er blíða, friður spekt,
flest-alt náir lífga lund,

höldum þessa af hjartans lyst
hátíðlega stund.

Í einu orði að segja
alt var líkt og hér,
maður hver og meyja
mikla skemtun lér;
einkis framar óska má
æðri gleði ef að nýt
alsæll verð eg þá.

Sumir sungu glaðir
sætt af hjartans lyst,
heyrist himnafaðir
herrann fyrir Krist;
á víni þó þeir vektu sig,
þeirra hópnum eg varð í
og endurnærði mig.

---

## Í sama brúðkaupi.

*Prestaskálin.*

Prestanna skál oss bergja ber,
minnist þess andi, mál,
mitt hjarta, líf og sál.

Þeir vilja leiða' oss lífs á stig,
fjórum sem finnast hér
fylsta þakklæti ber.

---

## Persónurnar.

Yndi veitir alúðin
oft með gengi fínu,
núna sé eg vininn vin
vefja að brjósti sínu.

---

## Trúlofunargildi.

Guðjón og Guðrún er
gleðjandi marga hér,
blessist þau bezt
með svalandi sálar fér,
sem að kærleika ber,
hann, sem alt á og sér,
elski þau mest.

---

## Giftingin.

Ó, hve hér er yndislegt að búa,
ó, hve fögur jarðar sælan er,

ó, hve því er unaðsríkt að trúa,
ó, hve betra síðar lánist þér,
ó, hve hátt sér andinn frjálsi lyftir,
ó, þá slitna heimsins töfra-bönd,
ó, þú fagra engilrós þér giftir,
ó, þið byggið síðar dýrðar-lönd.

---

## Í samkvæmi.

Okkur gleðjum allir saman,
ávalt syngjum það er gaman,
súpa' á krús og klingja flösku,
hvað sem seinna tekur við;
þarflegt nokkuð þyrfti skrafa,
þar á höfum engan vafa,
í mörgu þarf oss fram að fara,
fjöri beita og nýjum sið.

Hvað skal gera, hugsa, tala?
hressa geð, en svifta kala,
eindrægninnar bindast bandi,
bræðra-lagið sverjast í.
Höldum saman, Hörðdælingar,
hvað sem gleður eða þvingar,

hver með öðrum berum byrði,
blessun veitist þar af ný.

---

## Kærleikans heimboð.

Af kærleika var ég kosinn hingað,
kærleikann minnast því á ber,
kærleika láti hver sig þvinga,
kærleika verk að stunda' óþver.
Orð og hugsanir eins með sann
ástundum fyrir kærleikann.

---

## Brúðhjóna skálin.

Brúðhjónaskálin blessuð veri,
bergi eg henni glaður á,
sá sem að vatni í vínið sneri
veri okkur nú sjálfur hjá,
blessi hann þessi brúðhjónin,
borðgesti alla og söfnuðinn.

---

## Við hjónavígslu.

Kristján og Sigríði saman réð vígja
séra Guðmundur Einarsson nú,

hjúskapar skilmálann haldi þau nýja
með hollustu, kærleika, friði og trú,
aukist þau, margfaldist, uppfylli jörðu
eftir því sem að mögulegt er,
heiðurs og minningar hlaði sér vörðu,
þau hugsa þá til þess, er segi' eg nú hér.

---

## Í stofubrúðkaupi.

Jón og Halla, brúðhjónin,
hrinda glösum í skyndi
fullum að fleina ullum,
fínasta mál er brýnir,
hollra þeim óska heilla
hinir, sem eru vinir,
drekkum, og drottni þekkan
drýgjum vanann í Kana.

---

## Hjónaskál.

Tómas og Herdís tóku saman höndum,
trygðir bundu meður líf og sál;
aldrei þau losni úr þeim kærleiks böndum,
uppi á þetta drekkum hjóna skál,

framkvæmdin, dugnaður, farsældin og heiður,
fylgi þeim við hvert eitt lífsins spor.
Svo ei gleymist svarinn hjóna eiður,
sól þeim skíni jafnt um haust og vor.

---

## Trúlofun T. og S.

Um trúlofunar tala stand
tvent er yndi og gaman,
þá kærleikans blessað band
bindur hjörtun saman.

Svona er gæðum ýmsum á
yfirskrift og myndin,
gott er alt, sem guði er frá,
guð er kærleiks lindin.

Svo að verði sælan viss,
saman búi í náðum,
lundin þeirra líkist Krists,
lukkan fylgi báðum.

# FJÓRÐI FLOKKUR.

## ÝMS LJÓÐMÆLI ALVARLEGS EFNIS.

---

### Fjallræðan.

Á fjalli mælir frelsarinn
fyrðar eftir taki!
nú því hæla nokkra finn,
níföld sæla' er fram boðin.

Sá volaður anda að
á vill Drottin trúa,
horfinn skaða í hverjum stað
himna- laðast -ríki að.

Sæll í anda er sá mann,
alla hógværð sýnir,
og svo landið erfir hann,
ekkert granda þessum kann.

Hrygð ef bruggar harma él,
hjarta þrungið verður,
sá mun huggast hljóta vel
af harma-muggu, sælan tel.

Hungra' og þyrsta hvern sem má
heilagt í réttlæti,
sæluvist mun saddur fá,
sjálfum gista drottni hjá.

Sælu njóta munu meir
menn, sem líkna öðrum,
mannorðs-bót þá maður deyr,
miskun hljóta skulu þeir.

Skulu hreinir hjarta í
herrann fá að skoða,
sælir einatt þeir af því
þessi treynist gleði ný.

Sælir allir mörgum meir
menn sem friði valda,
laus við galla góður deyr,
guðs börn kallast skulu þeir.

Ef ofsókn líður einn á ný
út af réttlætinu,
sæla bíður hans þá hlý
himna- friðu -ríki í.

Sá, sem líður hrakorð hér,
— herrans fyrir sakir —

einnig stríðar ofsókner.
engu kvíði, sæll hann er.

---

## Heilræði.

Heyra og læra heilræðin
holt oss væri tíðum,
það vil færa í söng um sinn,
systir kær og bróðir minn.

Hvern dag prýða og helga á
helzt með fríðum dygðum,
unun blíð ei endar þá,
allur kvíði víkur frá.

Sæla og glaða gerðu menn,
guðs fagnaðar njóttu,
eykst þá hraðast unun, en
að þér laðast farsælden.

Vilji hallast velmagt fín
vart hugfallast láttu,
ef orsök kallast ekki þín,
auðmýkt falleg bezt þá skín.

Störf tvöfalda og stjórnun þín
stór, því alda faðir,

býður gjalda blessun sín
bætist vald, en þörfin dvín.

Ætíð trúaröruggur,
í mót snúir skorti,
við hann búir vonglaður,
virðist flúinn mótgangur.

Ilt ef þorum auka skjótt,
einum vorum bróður,
hans í spor ef förum fljótt,
finnur hver, að það er ljótt.

Meður gleði gefðu fljótt
gott þá séð er hjarta,
ef hýrgar meður hugvits þrótt,
hrygð er skeð við bana nótt.

Ef vin trúan eignast þú,
að því hlúa skyldir,
um svo búa ættir nú,
að ei flúi gleði sú.

Þó vélráð bruggi veröld flá,
við ei ruggar trygðum,
vina huggun vaxa má
vel sem skuggi kveldin á.

---

## Til Jóns á Breiða.

Ef þú kant að elska guð,
aðra menn og sjálfan þig,
í heimi nærðu háfögnuð,
harðan mýkir þrauta ríg.

Boðorðin, sem þykja þung,
þér mun finnast byrði létt,
sálin verður alt af ung,
elskar dygð en hatar prett.

Samvizka þín gerist glöð,
guðs og manna hylli færð,
lundin verður líknar hröð,
ljúfa sálin endurnærð.

Lífið verður yndi alt,
enginn klagar þig um neitt,
sorga-él þá sýnist kalt,
samt í guði þér er heitt.

Reyndu, hvort ég segi satt,
ef svíkurð' ekki guð í trygð,
hver, sem trúnað hann við batt,
hlýtur víst í sælu bygð.

Ef þú getur elskað, Jón,

alla menn og Drottinn þinn,
hart ei dæmdu heimsins flón,
hlýtt að syndum þeirra finn.

Þinna dygða láttu ljós
lýsa fyrir bræðrum þín,
vininn eina kærstan kjós,
hvers aðstoðin þegi dvín.

Lærðu stef og mundu mig,
manna-prýðin, litli Jón,
allra faðir elski þig,
athöfn, málið, hug og sjón.

---

## Munaðarlitli drengurinn.

Hjal það grunda hér að von
hrífur lundu tregi!
Þú, Jónmundur Sigurðsson,
sóma skundir vegi.

Óbilandi' er auður þinn
eymda-stand þó græti,
heilags anda huggunin
hvers kyns vanda bæti.

Fáa vini ef þú átt,
eigðu vininn hreina,
af mörgum vinum miðlast smátt,
mest af vini eina.

Bezt frá drífur böls aðkast
bæn í kífi nauða,
bið óhlífinn, bið þú fast,
bið í lífi og dauða.

Í þó feta eigir hér
angurs hreta kælu,
hann, sem getur, hrindi þér
hvert eitt fet til sælu.

Ef viltu skarta í velfögnuð,
vinn þér margt að bótum,
einlægt þarft' að elska guð
inst af hjarta rótum.

---

## Móður-ósk.

Að mættir slóðum menta á
meður fróðleik skarta,
biður í hljóði bezt er má
brennheitt móður hjarta.

Himinglæfu roða rós
rétt í hæfi biður,
þú um æfi þénir hrós,
þinnar gæfu smiður.

Orð og móður mundu hitt
menta-slóð hvar gengur,
láttu þjóðum ljósið þitt
lýsa góður drengur.

Svo af mæðu mældri hér
minst á svæði gráti,
þrenning hæða heilög þér
hlotnast gæði láti.

Hjartans tregi hrífur mig!
hugsa, segi, skrifa;
ég vil fegin fyrir þig:
fæðast, deyja, lifa.

Hrannar bála hygginn ver
heyra mál það geri;
hrintu táli heims frá þér
helzt með sálar féri.

Heitt sem glóð er hjarta mitt!
hljóttu sjóð af gæðum,

mundu fljóð á meðan þitt
mjakast blóð í æðum.

Oft í hljóði að ýta sið,
orðin móður þinnar,
helzt ég góðan heyra bið
höfund þjóðarinnar.

---

## Til G. G. í Ameríku.

Þegar lífið þrýtur hér,
þraut frá svífur geði,
sálu hrífa heilög fer
hin eilífa gleði.

Mýki og græði meinin þín
mildur hæða Kristur,
hann lét blæða hjarta sín,
helgun glæða þyrstur.

Eymd frá strjáli í andláti —
alt svo tálið linni,
líknar-málið lausnari
leggi sálu þinni

Þrifin grómi þrauta frá
þarft ei dóm um kvarta,

sálin ljóma lystug má
lífs í blóma skarta.

Megum lystugt lofa Krist,
líf þá skiftist þjóða,
ef að gistum eina vist,
elsku systir góða.

Þegar gaman þrýtur hér,
þrautir, ami, mæða,
máske saman megum vér
mettar frama ræða.

Sjá hér maður mætti hvur
maura' ei skaðar þörnin,
okkar faðir alvaldur
að sér laðar börnin.

Að hinsta dómi drýgjum þá
dygða frómar gnóttir,
þenna óminn eig þú frá:
Ásu Tómasdóttir.

---

## Aldamót.

Sendu mér, Jesú, svölunarlind
sannleiksins orða, en lát þína mynd

í hjarta mér standa hvern hérverudag,
himneskt að syngi eg gleðinnar lag.

Hryggur og glaður eg uppbyrja ár,
indæl þó vonin í brjóstinu stár,
aldanna mótin og æfinnar kvöld,
á minn er ritað vegferðar-skjöld.

Bráðum á enda er æfinnar skeið,
alt vill mér benda að himneskri leið,
tek ég því hljóður það ræningjans ráð:
frá ríkinu góða að biðja um náð.

Hann, sem að bað fyrir hefndþyrstum lýð,
hann er vor talsmaður fyrri og síð;
hann því ég dauðahaldinu þríf,
hann, sem að gefur oss tilveru' og líf.

Hann, sem að út fyrir heiminn gaf líf,
hann er vor stjórnari, verndari og hlíf,
hann látum prísa hjarta og sál,
hugsanir, orðin, verkin og mál.

---

## Á seinasta vetrardag.

Sumardagsmorguninn senn kemur skær,
sólin þá ljómandi geislunum slær

á ungdóminn, sem að elskar þá list:
af alhug að lofa frelsarann Krist.

Vermi og lífgi oss sumarsins sól,
svölun þar finnum og gleði og skjól,
heilagur andi þó hjálpar oss bezt
helgun að vorri ei sláum á frest.

Miskunnarlindin er ljómandi skær,
sem laugar og hreinsar og syndir af þvær;
aðhyllumst þenna elskunnar brunn,
ef að oss leiðin þangað er kunn.

---

## Haust 1902.

Mörgum lengi í minni stár,
minstir vindar þustu,
fagurt þetta annað ár
aldar tuttugustu.

Um þau dægur yndið grær,
af ama sæg ei stúrum,
þá var nægur þerrir-blær,
þó með hægum skúrum.

Raunar nokkuð rýrði kost —
rétt er, það eg segi,

margar nætur feikna frost
fram að höfuðdegi.

Og sá kuldi ama bjó
ungu jarðarfræi,
góður drottinn gaf oss þó
gras í meðallagi.

Sólin háum himni frá
hríslaði gljáa kafla,
nýting á réð löngum ljá
lands- og sjávarafla.

Haustið unun er að sjá,
æ líkt sumar blíðu;
engir muna þykjast þá
þvílíkt gumar fríðu.

Með vetri gjalla vindur fer
veður skall um fjöllin,
bara svall í bygðum hér
busta- hallast -tröllin.

---

## Á fyrsta sumardag 1903.

Enn þá ljóma fyrðum fær
fyrsti sumar-dagur,

og hjartans trúar blíður blær
blessaður og fagur.

Líkt og sólin ljómar skær
lands um alla parta,
andi drottins endurnær
yl í mínu hjarta.

Eins og snjó eg úti sé
með eðli hvítu sínu,
sjálfur drottinn sakleyse
sjái í hjarta mínu.

Dökka marga díla sér
dýrs um beðju víða,
svarta bletti synda vér
sízt þó megum líða.

Þó að úti ei sé hlýtt,
eins og kjósa lýðir,
byrjum sumar náðar nýtt
neinu' ei sálin kvíðir.

Enginn dögg þá úti stár
eðli fjarri sínu,
iðrunar og trega tár
tindri af auga mínu.

Eilíf náðin undir bjó
öll svo mönnum gefi
sönnu gæðin, sjálfur þó
sízt forþénað hefi.

Allir nú með yndi' og frið
eiga þenkja gumar
okkur tekur eitt sinn við
indælt gleði sumar.

Ætti mannsins andi hlýr
ylinn trúar þjóða,
eins og vorið undir býr
allan sumar-gróða.

Þegar vetur frá oss flýr
fagurt látum skarta,
anda kærleiks ylur nýr
endurnæri hjarta.

Hvernig sem að hver sig bjó
hér, það vita gumar,
eftir kemur eitt sinn þó
eilíft náðar sumar.

Alt ágæti heims er hjóm
hvarf sem blómið valla,

minnumst því á deyð og dóm
daga lífsins alla.

Vér þá sjáum vernd og hlíf,
veitt með háfögnuði,
innra-mannsins alt er líf
ununin í guði.

Oss þá gleðin aukast fer
unaðs beitum hljóðum,
samhuga' allir syngjum vér:
sætt lof drottni góðum.

Ei þó hér sé æfin löng
allir megum trúa
endalaust við engla-söng
eigum saman búa.

Verður síðar vonin fyld,
vita mega gumar,
er þá komið eftir vild
eilíft gleði sumar.

Eins og sólar ylur kær
ytri vermir parta
anda drottins blíður blær
blíðki sál og hjarta.

Þó að virðist sumum seint
sumars koma blíða,
með þolinmæði og þelið hreint
þegnar eiga' að stríða.

Oft hefir á ýtum rætzt,
eigum huggun slíka,
þegar sýnist neyðin næst,
náðin vakir líka.

Þó að kólni heims um hlað,
hér er stutt að bíða,
þegar drottinn á ég að
engu þarf að kvíða.

Þegar kosinn bregst oss byr,
börn í skjólið flýja,
náttúrlega á náðar dyr
nokkrum sinnum knýja.

Ef á þú knýr af öllum mátt,
þá öll í skjóli er fokið,
efalaust á einhvern hátt
upp mun verða lokið.

Huggun er að hljóta skjól
hörðum leystur dróma,

þar sem eilíf sumarsól
sífelt náir ljóma.

Sárt ei meinin svíða mér,
sem guð læknað getur,
sumar þegar innra er,
úti þó sé vetur.

Heims á láni þykir börn,
þar af skulum meta,
ástrík valla óskabörn
allir verið geta.

Þegar ama eitthvað má
angri samt ei flíkum,
flýjum þá í faðminn á
föður elskuríkum.

---

## Börn fóru til læknaskurðar með skipi.

Vininn minn eina
í veikri bið eg trú
:,: greið oss götu beina
af gæzku þinni nú. :,:

Æzti alráðandi,
alt sem megnar vel,
:,: líkt á sjó og landi,
líf og sál þér fel. :,:

Blíð á börnin stari,
er burt mér svífa frá,
:,: æðztur engla hari!
ætíð sért þeim hjá. :,:

Eg mun sjá þau aftur
almátt fyrir þinn,
:,: því að Kristí kraptur
keypti' oss bústaðinn. :,:

Eg skal engu kvíða,
öll mín gróa mein,
:,: sér lét Kristur svíða,
sem er lækning hrein. :,:

Þó þú drottinn deyðir,
djörf það trú er mín,
:,: manna sál ei meiðir
miskunsemi þín :,:

Títt þó tárin streymi,
til að hressa mig,

:,: veikri von í heimi,
varpa' eg upp á þig. :,:

---

## Afturkoman.

Indæl er stund
elskuleg börnin finna,
lifnar því lund,
lofsöng saman tvinna,
þakkandi drottni af hjarta og hug
handleiðslu og miskunsemd alla,
er vandræðum flestum vísaði á bug,
vert er þann guð að ákalla.

Góður er guð,
gleðja og hryggja í máta,
sorg og fögnuð
sífelt um skiftast láta,
alt svo að prísi almættið hans
andað sem getur á jörðu,
má eg vegsama þann miskunarglans
mætandi blíðu og hörðu.

Almáttug hönd
aldanna stýrir fleyi

greiðir frá gröndu,
gjálp þó að faldinn teygi,
unz þar til lendum í eilífri höfn
ánægðir, hressir og glaðir,
endalaus gleður þar ununin jöfn,
alsæla vonin mín það er.

---

## Barn skarst voðalega.

Sá sem græðir sárin mín
sár öll læknað getur,
öll þá manna aðstoð dvín
öllum reynist betur.

Til hans flý í nauðsyn nú
nauða í staddur kýfi,
bið hans höndin bjargi trú
bæði sál og lífi.

Því hann hef til reiði reitt,
raskast sansa friður,
hjálpar meðal er þó eitt,
einn mér fyrir biður.

Bruna sár þó svíði mest
og synda eldur blossi,

sá mun lækna sárin flest,
er sjálfur þoldi' á krossi.

Mér fyrir' sjónum mildin skín
mikla kongsins hæða,
sárin hans öll sárin mín
sannarlega græða.

---

## Kona frelsuð úr barnsneyð.

Þegar í fátækt ligg eg lágt,
lúin af hérvistinni,
indælt er þá til himins hátt
horfa í auðmýkt sinni.

Þegar eg fæddist fyrst í heim
forsvar var guð mitt bezta,
hef eg síðan á herra þeim
huga minn gert að festa.

Þegar veikleikans þrengdu bönd
og þjáningarnar stríðar,
lagði eg bæði líf önd
í lausnarans hendur blíðar.

Þegar drottinn mig frelsti frá
fæðingar harmkvælunum,

glöggvast eg skilja' og greina má
gott er að treysta honum.

Þegar eg sé þá helgu hönd
höndum öllum sterkari,
er leysir frá dauða líf og önd,
er logaði' á veiku skari.

Þá fell eg djúpt á fótskör þín,
frelsarinn Jesú góði,
og auðmjúk þakkar öndin mín
með ást og tára flóði.

Sjálfs guðs af brunni svölunar
og sætum náðar lindum
alþyrst eg drekk til eilífðar,
angri því sál mín hrindum.

Árnaðarmanninn á eg þar
upp hjá guðs náðarstóli,
en sá bænheyrður ætíð var
í hans mig fel því skjóli.

Sé þér lof fyrir sælu og kvöl
sannleikans ljósið skæra,
lof sé þér fyrir blíðu og böl,
er brjóstin köld vilt hræra.

Þríeini guð nú þökk og prís
þér vil eg syngja af hjarta,
auðmjúkum náð þín verður vís,
vel lát trú mína skarta.

---

## Barn grét dáinn föður.

Eins og móðir ástfangin,
er sá gróði mætur.
Barnið góða babba sinn
bljúgt í hljóði grætur.

Þó sárt um bindi sansar þín
sorga hrind nú bárum,
hjartans yndi, elska mín,
unun fyndu í tárum.

Hrestu nó'a hugar þor,
hrundin góins túna,
síðar gróa sárin vor,
svíði þó að núna.

Hrundin klæða og karlinn þar,
þó kuldi um læðist svæði,
rökkurkvæði Ragnheiðar
rauluðu í næði bæði.

---

## Við barnakennslu.

Ó hve hér er yndisríkt að lifa
ungu blíðu smælingjunum með,
reyna kenna reikna, lesa, skrifa,
reyna sýna gott hvað þeim er léð,
eitt er bezt: að elska guð af hjarta,
unna lika náunganum vel,
fagran kærleik finnum ætíð skarta,
förunaut hann sannleikans eg tel.

---

## Kvöldþanki.

Lífsins uppsprettulind,
læknandi hverja synd
og sérhvert meinið manna,
miskunarljósið sanna.

Fram nú eg fallin er
á fótskör þinni hér,
sorga og synda fjöldi
mig særa á þessu kveldi.

Faðir mér fyrirgef,
fyr en eg sofnað hef,

mig virztu mildur heyra
míns Jesú fyrir dreyra.

Ylfrjór þíns anda blær,
alvaldi faðir kær,
huggun af himnum tali
og hjarta mínu svali.

Sjá mína særðu önd,
sorga afleystu bönd,
drottinn minn bæði og bróður,
blessaður Jesús góður.

Þú veizt eg elska þig,
þinn máttur styrki mig,
skylduverk öll mín iðja,
í trúnni vaka og biðja.

Faðir í faðminn þinn
fel eg nú anda minn,
ekkert mér orkar granda
á milli þinna handa.

Eg fel svo alt mitt ráð
alvizku þinni' og náð,
annast þú iðju mína
og gef mér blessun þína.

Vek mig af værum blund
við fagra morgun stund,
áminn þá öndu mína
að lofa gæzku þína.

Verði þinn vilji á mér
í vöku og svefni hér,
lýs mér í lífi og dauða
lausnarans blóðið rauða.

---

## Barnsskírn.

Lýður og Kristín leggja saman,
lofa og dýrka skaparann,
fyrir sér veitta gagn og gaman,
er gafst þeim fyrir kærleikann
Edenrós fögur, engilmynd,
endurlauguð í skírnar lind.

En ekki' er sólskin alla daga,
almættið sendir stundum skúr,
sýnir oss bæði ást og aga,
einn guð er sínum börnum trúr,
áhyggju varpið upp á hann,
er ykkar meinin græða kann.

---

## Í Jólaheimboði.

Nágranna kærleiks ástar andi,
öllu fremur mitt töfrar geð,
og fjötrar mig með friðar bandi
fremur en eg hélt gæti skeð,
hvað eitt gott veitast kann hér nóg,
Kristjáns gamla eg sakna þó.

En sumt eg ekki má á minnast,
mér er því bezt að þagna hreint,
skal vor vegur að skilja' og finnast,
á skeiðvelli lífsins snemma' og seint,
líka er stopult lán sérhvað,
lífið og dauðinn votta það.

---

## Fæðing fyrsta sonar.

Almáttuga eining þrenn,
alla sem skapar menn,
sendi mér son,
gerist oft tíðin tvenn,
trúin er kröftug enn,
bæn ef samferða senn
sést, það er von.

Daníel Hjörtur hér,
heiminn í borinn er
oss yndis til,
eitthvað samt amar mér,
ýmislegt því til ber,
lýðum sem líkar ver,
lítt það eg dyl.

---

## Skift um störf.

Mörtu umsvifin minka nú,
María tekur við,
hlutskiftið góða hlýtur þú
með helgum dyggða sið,
að Jesú fögru fótum snú,
því finst þar réttlætið,
eilífa tíð oss undir bú,
iðrist ei síðar þið.

---

## Iðrunarstundin.

Ráfað' eg viltur af veraldar hætti,
veginum ýmist tíndi' eða fann,
sárlega tíðum samvizkan grætti,

eg sint' ekki um ljósið, sem fyrir mér brann,
þó nú um síðir eg þreytist að sveima
í þokunnar myrkri, hvar hætta mörg er,
birtunni orðsins þó geri ei gleyma,
hún gefur því stöðugt leiðrétting mér.

---

## Á líkri stund.

Faðir minn á fótskör þína
flatur krýp eg duftið í,
samvizkan mig sárt vill pína
synda neti flæktan í.
Sýndu mátt og miskun þína
mér útrýktu þar á ný.

---

## Jóhannes sagði satt.

Jóhannes Samúelsson,
sannleikans hjá þér er von,
sjálfur guð sannleikur heitir
sælu því alla hann veitir.

Kristur er kærleiki hreinn,
kærleikans vegur er beinn,

ætíð hann gerðu að ganga,
gæfuna muntu þá fanga.

Jóhannes, jafnan eg bið,
Jesú trú haltu þig við,
lífernið lausnarans bjarta
lát þú í dagfari skarta.

Lær þú að lifa sem ber
til lukku og farsældar þér,
leita fyrst guðsríkis góða,
sem gagnið er manna og þjóða.

Viltu nú læra mín vers
og vita hver biður þig þess:
að forðast alt heimsins fláræði,
en fanga in andlegu gæði.

---

## Velgerðamóðirinn.

Velgerða móðir mín,
mig langar oft til þín,
gleði er sál og sinni
sífelt að návist þinni.

Veri guð vinur þinn,
vernd og skjól frelsarinn
í lífi, deyð og dómi,
drjúgum eflist þinn sómi.

Launi þér dáð og dygð
drottinn, og vina trygð,
á öllum æfi vegi
og endurlausnar degi.

---

## Veika stúlkan.

Mín þá tek inn meðulin
mæli um þanka setur,
Jesú Kristí! kraftur þinn
kær mig læknað getur.

Veit eg mig óverðuga,
vafða syndum mínum,
þó sem konan kanverska
krýp að fótum þínum.

Böl, sem þjáir brjóstið mitt,
bænar til mig hvetur,
Jesú síðu sárið þitt
særða læknað getur.

Herrans Jesú heilagt orð
huggar sálu mína,
nægir mér við náðarborð
náðar mola að tína,

Endurnærir innra mann,
af því fóru sögur,
læknar sál og líkamann
lífsins eikin fögur.

Eilíf náðin æ mér skín,
ánægð vil svo þreyja
og í friðar faðmi þín
frelsuð lifa' og deyja.

---

# FIMMTI FLOKKUR.

## ÝMISLEGT EFNI.

---

### Stúlkuvísur.

Þá var hljóður þels um stig
þagnar tjóðri bundinn,

beyddu góðu börnin mig
brugga ljóð um sprundin.

Kristín stöðugt starfa má,
stilt og glöð er lundin,
Gunnarsstöðum unir á
úða röðuls grundin.

Ama grennir ýmsum hjá
Ása hennar systir,
læra nennir björt á brá
beztar kvenna listir.

Unga man eg auðar slóð,
æsku vana skeiði,
Kristíana' er Guðbjörg góð,
gæfan hana leiði.

Dagbjört þar á þundar mey
þægð með rara gistir,
blossa mara ágæt ey
engar sparar listir.

Glöð í sinni Guðrún hér,
gauts um kvinnu prúða,
drjúg að vinna dygðuð er
dýnu linna rúða.

Margrét rjóða hlýtur hrós
hjals af þjóða miði,
lipur tróðan loga sjós
lærir góða siði.

Ára rakkann austra má
inn að Bakka leiða,
láta flakka ljóða skrá
líkt og krakkar beiða.

Kristín þýðlynd hlýtur hér
hrósið fríða þjóðar,
daga víðis dokkin ber
dygðir iðilgóðar.

Laus við kvíða þels í þey,
þrifnað tíðum beitir,
dagfars blíða bauga ey
ber Málfríðar heiti

Að síðsta dómi Salóme
sönnum frómleik klæðist,
drafnar ljóma dokkinne
dygð og sómi græðist.

Drjúg, viðfeldin, dugleg er,
dygðum selda lundin,

hýr Ingveldar heiti ber
hafnar elda grundin:

Hnýsu ranna hita tröð
hrósið fann hjá lýði,
mín Jóhanna Guðný glöð
góðra svanna prýði.

Dunk að fer og finn eg þar
freyjur hvera glansa,
frægð sem bera fjörugar,
frí er hver af vansa.

Dúkatróða dygðir ber
dagfars góð hjá lýði,
metin þjóðum af nú er
Ólöf fljóða prýði.

Stilta víðis geisla gná
græðir lýða hrósið,
allar tiðir Anna' að sjá
er sem blíða ljósið.

Dugnað fylda drós eg tel,
dygð með snildar fína,
hún Svanhildur virta vel
vinnur skyldu sína.

Kristín fljóð, sem fékk nú hér
fóstur móður góða,
linda tróðu lofið ber
lofðung bjóða þjóða.

Listum fróm að leikur sér,
laus við grómið stygða,
Herdís sóma hlaðin er,
hreina blómið dygða.

Klæðareynin kefur stygð,
kærleik hreinan býður,
heitir Steinunn, hennar dygð
hrósar einatt lýður.

Margrét gæðir sóma sig,
síst til ræðir stygða,
eikin klæða alúðlig
einstig þræðir dygða.

Þórdís gengur gæfu braut,
gæði engin brestur;
linna engja elskuð laut
er af mengi flestu.

Gæfu feril gengur á,
geðjast mér in fína

glætu hvera gefni smá,
Guðbjörg Erlendína.

Ósk mín glæðist alúðleg,
eyðist mæðu stundir.
Lofðung hæða lífs á veg
leiði klæða hrundir.

Mun tilgangi mínum ná,
mönduls ranga bliki,
ef að spanga hrundum hjá
hlátur langan jyki.

Forlát þótt vel saminn sízt
seyma gáttin fína,
játa sáttur vil eg víst
vankunnáttu mína.

---

## Grétu stökur.

Eðalsteina eik sem ber
æfir hreinar dygðir,
gleði einatt miðlar mér
Margrét Steinunn Teitsdótter.

Margrét Steinunn mig sem einatt gleður,

því má trúa að eflaust er
ung jómfrúin Teitsdótter.

Lukka einatt lénist þér,
laus frá meinum hvar sem fer,
manndygð hreina mönnum tér
Margrét Steinunn Teitsdótter.

Ástar blíðu' og yndi lér,
um það smíða bögur,
minkar kvíða, miskun tér
Margrét íðilfögur.

Við mig einatt verður góð,
við því má ei sporna,
fyrst eg á að yrkja ljóð
um þig kveld og morgna.

Við það eira varla má
vaskur freyrinn geira,
enn vill heyra auðargná
alt af meira, meira.

Ásta taugar örva má,
út það flaug í bögum,
garpar spauga gerðu hjá
Grétu á Laugardögum.

Margrét Steinunn mig vill reyna tíðum,
hvort laga nenni ljóðakver
líkt og kenna börnum hér.

Birti' eg löngum bezt að fer,
burtu þröngva trega,
fyrir sönginn þakka þér
þó fór böngulega.

Ástar funi helst lét hér
hróðrar duna strengi,
samveruna þakka þér,
þig skal muna lengi.

Er hún Gréta ýtum hjá,
indæl metin lengi,
dygða feta feril á
fjörug hvetur mengi.

Aftur lifa ekki neinn
upp til hefir getu,
ef eg væri ungur sveinn
elska færi Grétu.

Langar einatt líta fljóð,
lund þó treynist hljóða,
mun því reyna mynda ljóð
Margrét Steinunn góða.

Mannúð glæða' er meining þín
mjög í kvæða skyni,
þá sem græða meinin mín
met eg gæða vini.

Ó hve það er sigursælt
sífelt guð að elska' af rót,
heyri eg af höldum mælt,
hjarta gæði' er rauna bót.

Kennist lausa kvígildi,
krakkar sex á Hóli,
fjúka eins og fiðrildi,
finst upp sagður skóli.

Gang þó drýgi heimsins hjól,
hrygða ský burt vendi,
og þér nýjárs yndis sól
unaðs hlýju sendi.

Klæða sólin þessi þá
þarf út jól að vinna,
sú á Hóli heima á
hrundin bóla linna.

Frá þér hrindist hrygðin stríð,
hagsæld findu lífs um tíð,

storðar tinda ljósa hlíð
lýsi yndis sunna blíð.

Ungri hnúa hélu gná
hrygðin snúist gjörvöll frá,
hýr jómfrúin ekru á
yndis búin skrúða þá.

Blessun rík þig blómgvi tjáð,
bezt er mýki hrygða gráð,
glansa víkur gefist láð
guðs og líka manna náð.

Margrét þýða bezt eg bið
blessun skrýðist lífs um mið,
himna síðast fáðu frið
fjörs nær líður veghlaupið.

---

## Gamanvísur.

Lítið gaman ungra er,
aðrir stunda frama.
Vísir gamall Vógg um tér
víst og meinti sama.

Vanst mér sýna suðra fley,
seyma fögur lína,

þó léti' eg mína ómynd ei
í augsýn koma þína.

Stjörnu boða strönd, er finn
stig vilt gæfu troða,
haukinn voða hleiðólfs minn
hérna máttu skoða.

Þér frá skýri margt til meins,
mæka vildi týri,
brotnaði' stýri árar eins
austra á siglu dýri.

Í nausti snarast nú sá fraus,
neitt ei getur farið,
hjóla- bara og hlunna-laus
hættur ganga parið.

Vantar reiðan austra á,
ekkils jórinn heiða,
svo þann leiða sízt eg má
sóns á marinn breiða.

Mér vorkenna verður víst,
vart þó slíku nenni,
hjörva-spennir hætta býst,
hans er slæmur penni.

Með ánægju maður sá,
mjög í höndum laginn,
sem um daginn sat þér hjá,
sjá má þenna braginn.

Les með hraða þetta þá
þöllin naðurs hlíða,
legg svo blaðið eldinn á
ekki það má bíða.

Gæfu hljóttu fríð og fín,
fús á dygða gnóttir,
sáða gróttu siðug lín,
Svanborg Þorkelsdóttir.

Gleði' ótrauð og skýja skúr
skarðtýrs, pestin sauða,
sést ei auða selabúr,
svo til heiti dauða.

---

## Á æskustöðvum.

Leita svakkið gladdi geð,
görði frakkur púla,
í elli flakka eg þá réð
upp í Bakka-múla.

Bara kallinn boginn fer
brölta' upp fjall í hasti,
brosti allur móti mér
múlinn fallegasti.

Til mín galar gil og á,
greitt sem kala hrindir,
að ei tala þurfti þá
þiggja svala lindir.

Móar, bali og brekka hver,
blíðu hjal sem ræki,
þrenslags valin buðu ber:
blá, aðal, og kræki.

Fór eg laga ljóðin þá,
laus við baga' og trega,
mintist daga æsku á
yndis fagur-lega.

Húsin smíða mundi mér
minstan líða trega,
þegar fríðri hjörðu hér
hjá sat prýðilega.

Smalar hól á fundust fimm
fjörugt ólu gaman,

æsku sól og elli dimm
eiga stól ei saman.

Harða spretti hljóp eg þar,
heldur nettur mundi,
núna fléttast fæturnar
fleins á grettnum þundi.

Eg í laugar sorga set
sinnis taugar góðu,
valla spaugað við nú get
vom né þauga tróðu.

Verður lúta elli alt,
æsku stútast drömbin,
eins og kútur á stað valt
elta hrúta' og lömbin.

Gamall hræðist fara' á fjall,
fá því gæði styrkja,
buga mæði mundi kall,
minkar næði að yrkja.

---

## Ádrepan.

Átta hundruð eitt þúsund

ár og fjörutíu
fæddist eg á frera grund
fjöri gæddur nýju.

Daginn fjórða desember
drakk eg fyrst í heimi,
síðan öl þá sýp eg mér
sorgum flestum gleymi.

Fimmtíu og fjögur ár
fékk á Dunkárbakka
lifa gæða kjör við klár,
hvað eg mætti þakka.

Búskapar nam byrja stjá
brátt að siðum þjóða,
líka tvítugs aldri á
eignaðist konu góða.

Afkvæmi eg fjórtán fékk
fram þá liðu stundir,
fyrir vinna vel mér gekk,
vurðu þreyttar mundir.

Vildu börnin liðsemd ljá
lífs með fjöri kviku,

síðar mér þó sigldu frá
sjö til Ameríku.

Hægð að snú var hugur hrín
hreint frá lúa venda,
hætti að búa og hreppstjórn mín
hér var nú á enda.

Hægt ei víða hitti ból,
hnugginn vart af sköðum,
hjá fornvin mínum fékk eg skjól
fram í Álfatröðum.

Á sjötugs aldri létt er lund,
leyst frá öllum pínum,
einn guð ráði alla stund
æfi kjörum mínum.

---

## Bleksendingin.

Bleki sletta á blaðið ter,
bendir vatna funa,
svo eg bara þakki þér
þína sendinguna.

Blekið mig á minna fer
margt í þanka salnum
og að vini á eg mér
upp' í Sökkólfsdalnum.

Bleki skrifað margt var með,
er minti' á fornar trygðir,
ekkert fegra eg hef séð
en ást og sannar dygðir.

Bleki rituð rún er mörg,
rétt af kærleik hreinum,
og því glæðist ástin fjörg
oft hjá snót og sveinum.

Bleki þryktar bækur víst
bera lærdóm góðan,
menn ef lesa margt við snýst
manninn gerir fróðan.

Blekið senda bezta mér,
blek sem vottar trygðir,
bleki með eg þakka þér
þúsund faldar dygðir.

---

## Neðan á bréf til S. S. Akureyri.

Þetta masið þrýtur hér,
þagnar bindst í tjóður,
lukka ávalt lénist þér,
lífs og sálar fóður.

Mér hjá ekki mælska stár,
mun sá tæmdur sjóður,
fyrirgefðu flýtis pár
fornkunningi góður.

Helzt eg vil þú heyrir það,
hver mun unna sínu,
mér er skemtun ætíð að
eignast frá þér línu.

Óðins hani hraustur minn
hart þó víða róli,
latur sé eg líkaminn
liggur heima' í bóli.

Vaknaðu af værum blund,
þó víða sveimi í löndum,
ekki þorir á þinn fund
íshafs nærri ströndum.

það er okkar orðtak fornt:
allir kunni ljúga,
en þú munt segja það sé mont
þessi nenni' að fljúga.

För hans er ei frægðarlig
fjörs á stuttri línu,
því er bezt hann bæli sig
búri heim í sínu.

---

## Neðan á bréf.

Þar að hrinda þanka vil
þó með lindi spöku,
get eg yndis ekki til
eina myndað stöku.

Þó við hlýnar þanka flog
þrautum týni í skyndi,
meðferð Línu minnar og
margt sem sýnir yndi.

Linna hrauna lofnin sér
lítt má raunar kvíða,
aldrei launað eg fæ þér
ýms því kaunin svíða.

Þó án stygða þakka nú
þels í bygðum grónum,
allar dygðir ást og trú
ykkur trygða hjónum.

Þetta gæðir yndi oss,
óskir glæðir blíðar,
þið að gæða himneskt hnoss
hljótið bæði síðar.

---

## Stökur neðan á 7. bréf sama kvöld.

Hjá þér bólar einatt á
yndis sólar stöfum,
ber það ólund burtu frá,
betra jólagjöfum.

Vel til hlíðir víði stáls
vísu smíða fríða,
því mér tíðum hönd um háls
hafðir íðilblíða.

Það ágæti alt eins er,
unni' eg mætu hnossi,
þú á stræti miðlar mér
meyjar sætum kossi.

Gæfan sanna gefist þér
guðs og manna hylli,
feril sannleiks fetir hér,
fyllist þannig snilli.

Dugnað sýnir dygð og trú
djásn það skíni vinum,
bráðum krýnist krónu þú
Krists í víngarðinum.

Sú útmálast hugsun hér,
hvergi brjálist næði,
lukkan tállaus léni þér:
lífs og sálar gæði.

Guð á hæðum hreint frá þér
hrygð og mæðu stefni,
að svo gæði indæl hér
öðlist klæða gefni.

Helst uppfræði huga þinn
hann sem ræður öllu,
dygðir glæði dugnaðinn
*drjúgan klæða þöllu.*

Sálin þín ei verði veik
vizku meður spakri

blífir þú sem blómleg eik
blessunar í akri.

Búin eru bréfin sjö,
brátt þó stýri' í augu,
er nú klukkan orðin tvö,
eg þá rita Laugu.

---

## Til Otrardals barna.

Eg í fríðan Otrardal
oft án kvíða reisti,
þekki lýð í sögðum sal,
sveinaprýði og kvenna val.

Meður blíðu brosi hér,
björkin víðis funa,
hrindir kvíða hæversk, er
hún Sigríður skemtun lér.

Dygð og heiðri safnar sér,
svo sem beiðir þanki,
því Ragnheiður indæl er,
á lífs skeiði kærust mér.

Ungum Páli' eg óska fer,
að með sálar fjöri

hrindi táli heims frá sér,
hrannar bála dyggur ver.

Jakob leiði lukkan há
lífs á skeiði finu,
illu sneiði öllu hjá,
öðlist heiður bezta sá.

Anna Guðrún björt á brá,
blóma-rósin fögur,
þróast dalnum Otar á
öllum betri fingra snjá.

Lukkan blíð þau leiki við
lífs um tíðir allar,
meður fríðum sóma sið
sælu skríðist geðs um mið.

Kvæði getur krotað smátt
Katrín getin Jóni,
er kærleiks metur helgan hátt,
á himni betra' og jörð er fátt.

---

## Fylgdarkaup.

Indæll Skjóni fyrstur fór
fram um gróna jörðu,

hann vill þjóna Hildiþór
hátt þó tóni svörður.

Ef með glaumi á öldum jór,
eftir laumast bræður,
hreif í tauminn Hildiþór,
hann við naumast ræður.

Veitir yndi bezta þeim,
burtu hrindir kvíða,
sessulinda hundi heim
hart í skyndi ríða.

Ekki dvína yndið má,
oft þó vínið þrjóti,
tekur Stína þýðlynd þá
Þóra sínum móti.

---

## Til barns.

Fyrir síðast fundinn þinn
falda-hlíðin unga,
þér eg blíðast þakka vinn,
þú varst prýðis viðfeldin.

Meður gnóttir manndygðar,
mærin blíð og fögur,

auðnu hljóttu alls konar
Elín dóttir Guðmundar.

Af því ranga austra hund
eg nú til þín renni,
að mig langar á þinn fund
eikin spanga hýr í lund.

Þó minn hreini þanki sér,
það fer eftir vonum,
að leiksveina yngri mér
eflaust reynir kjósa þér.

Kveðju góða flyt mér frá
föður og móður þinni,
systrum, bróður, þar með þá
þessi' er ljóða búin skrá.

---

## Til barns.

Yndi hljóttu ung með spaug,
efli þróttur hverja taug,
stilt og rótt um stunda baug
Stefánsdóttir Sigurlaug.

Yfir þína æfitíð
auðnu skíni sólin fríð,

drottins krýni blessun blíð
blossa rínar mæta hlíð.

Unn þú trygð og einlægni,
öllum stygðum hafnandi
feril dygða fetandi,
að friðar bygðum ljómandi.

Silki klæða sólundin,
sannan græði heiðurinn,
alls kyns gæði æ hvert sinn,
um eilífð hæða fögnuðinn.

---

## Borguð 1 vísa.

Bauga tróðu bresta fer,
borgun góða rita hér,
Guðrún jóðið Þorláks hér,
þylja ljóð ei kann sem ber.

Mínum fróðleik minst ber á,
möttla tróða, skaltu sjá,
eg hef þjóðum aldrei hjá
iðkað ljóðin stór né smá.

Bæn í máta þyl eg þér
þetta fátt sem áhrærer,

ung og kát, er elsku ber,
að forláta viljir mér.

Á þér hríni óskin mín,
auðna krýni baugalín,
hér þá pína heimsins dvín
helguð skíni sálin þín.

---

## Kring um Álptafjörð.

Fákar skeiða greitt um grund,
grenna neyð að vana,
eins og beiðir ýta lund
ofan sneiðingana.

Sviptir vanda seggirnir
seint um landið fara,
heilla stand að höndum ber,
háblásandi fjara.

Álptir kvaka út á sjó,
undir með oss taka,
horskir vaka höldar þó,
héldu leið til baka.

Lukkan gleður þæg og þýð,
þessum séð á dögum,

drottins krýni blessun blíð
blossa rínar mæta hlíð.

Unn þú trygð og einlægni,
öllum stygðum hafnandi
feril dygða fetandi,
að friðar bygðum ljómandi.

Silki klæða sólundin,
sannan græði heiðurinn,
alls kyns gæði æ hvert sinn,
um eilífð hæða fögnuðinn.

---

## Borguð 1 vísa.

Bauga tróðu bresta fer,
borgun góða rita hér,
Guðrún jóðið Þor[illegible] hér,
þylja ljóð ei k[illegible] ber.
[illegible] er á,
[illegible] á.

ýtar kveða' á Eyrarhlíð
ýmsum meður brögum.

## Til H. Ó.

Ungur Hannes Ólafur
auðnu kennir vega,
að þér spenni alvaldur
örmum sannarlega.

Menta-gróður magnist þinn
og mætust þjóða hylli,
þú svo fróður, forlögin
finnir góð með snilli.

Sá, sem fremd og fjörið gaf
fleyir kendum spanga,
svifti' ei hendi hann þér af
hérvist endilanga.

## Heyskapurinn.

Karlmenn hér, kvenfólk er
kjörið til að heyja,
falla strá, fyrir ljá,
fölna svo og deyja;

af haddi þar, hrífurnar
í höndum ungra meyja,
keyra upp föng, í knappa saman fleygja.

Fangahnapp fast með stapp
færa í banda lása,
upp á lest er svo fest,
ýtar við það blása,
hestar þá hafa stjá,
hraustir frísa og mása,
heim á tún með heybaggana rása.

Birtast þá, bænum hjá
börn með siði þekka,
hvert eitt hér hjálpa fer
heyið breiða í flekka,
konan sinn kallar inn
kaffisopa að drekka,
bannar tíminn borðið matar dekka.

---

## Viðlegu-kvæði.

Hér á Breiðabólstað
blessast mönnum sérhvað,
túnið vel hirða og tölta á dalinn,
stilla gjarðanna glað,

gamna sér stúlkunum að
fram þegar koma þeir fjallann' í salinn.

Eftir indæla nótt
efldir fjöri og þrótt
taka þeir orfin og tyrfinga hvetja,
hamast sem hetjurnar þá,
höggva hvert einasta strá.
dalinn allan í síslægju setja.

Stúlkurnar fínar og flott
frá þeim ei viku á brott,
en eltu með hrífurnar hraðar,
keyrðu heyið í hnapp,
hlupu með lófanna klapp.
Ó hvað þær gjörðust þá glaðar.

Kom svo karl fram á dal,
keyrði jóanna val,
þegnar upp stukku og þutu að binda
hey í harðsnúin reip',
handa sátur með greip,
þeim af kappi á klakkana hrinda.

Settur ketill á hlóð,
sýður kaffi við glóð,
fallega logar á litfögru lyngi.

Segir hún: „Settu þig hér,
sjáðu, hve skemtilegt er,
fyrir mig vomurinn versið eitt syngi“.

„Flýtt' þér og farðu af stað!“
forstjóri við raustina kvað,
„vert' ekki að valsi né móki,
heyrðu, það hallast nú á,
hef eg þar steinana þrjá,
sjáðu það, kallinn minn klóki“.

Heyrist hotað á lest,
hart á reiðskjóta sezt
sá, er fyr niður settist hjá sprundi,
segir: „hott hott og hæ,
heim aftur ríð eg að bæ,
enginn mig gruna um græzku þar mundi“.

Áður komið er kvöld
kemur unglingafjöld,
heyið í gusum sem haglegast breiða,
segja: „gaman og gott,
nú er fagurt og flott,
við skulum karlinn að rúminu leiða.

Kemur húsmóðir hýr,
sem að hressing til býr,

heldur á bolla, „sko vilt' ekki sopa“.
„Ó gefð' í glóandi mér,
gott á eg tíðum hjá þér,
einkum þá læturðu lek' í það dropa.

Það er fagurt og gott
þegar flest ber þess vott,
fólkið í eindrægni og kærleika vinnur
og uppsker þau laun,
sem að oft gefst á raun
með ánægju friðinn í samvizku finnur.

---

## Verkafólkið.

Blautt eg reiði heyið heim,
hesta neyði og toga,
held svo leið um gota geim,
gufan freyðir út úr þeim.

Stúlkur raka utan að,
engja slaka heyi,
strax án saka svo í stað
saxa, taka og binda það.

Jónas leggur utan að
engja heyi líka,

Ásmund segginn saxa bað,
svefni beggja varnar það.

Heyið sér á herðum fljótt
heim svo gerir færa,
dável ber upp Teitur tótt,
tekur hér að reyna' á þrótt.

Gengur svona um borg og bý,
blíður drottinn styður,
börn með konan bænum í
bjargast vonum fremur því.

---

## Þrír sláttumenn.

Buxum striga einn er á
álitligur drengur,
hár og digur helst að sjá,
hann sinn vigur bera má.

Hrannar eysu annar ver
er á peisu blárri,
hann uppleysa haddinn fer,
hart því geisi ljáinn ber.

Þriðji sóðast þegnum hjá

þegi góður drengur,
lands um slóðu lestir strá,
logann óðins bera má.

---

## Afmæli H. Theills.

Hversu fagurt og indælt er
áramót lífsins sjá,
þar sem alt vott um velferð ber
svo vaknar gleðin há
:,: og syngjum allir þá :,:
Lengi lifi Hagbarð Thæl í heiðri.

Vitum sitt hótel-haldarinn
heldur afmæli í dag,
vinir allir og eg það finn,
alt er með gleðibrag,
:,: því syngjum listugt lag :,:
Lengi lifi Hagbarð Thæl í heiðri.

Honum til lukku óska eg
með alla framtíð sín,
börnin hans gangi gæfuveg,
gleði þá sólin skín
:,: einlæg það ósk er mín :,:
að lengi lifi Hagbard Thæl í heiðri.

Mörg börn hans ganga mentaveg
svo miðlist gæfa stór,
sinn lukkusmiður er held ég
sá álma·gildi þór,
:,: því alt af fór sem fór :,:
að lengi lifi Hagbard Thæl í heiðri.

Bráðum hann sér nú brúðkaupsdag
— blika þá gleðiljós --
dóttur sinnar með heilla hag
hríslast sem græna rós
:,: lukka til lands og sjós :,:
leiki í höndum lífsafkvæma yðar.

---

## S. Theilsd. og T. læknir.

Ó hve læknis höndin hlýja
hjúkrar mjúkt og forðar neyð.
Ó þá lifnar ástin nýja
upp sem renni sól á heið.
Ó hve æskufjörið fría
fagnar sinni björtu leið.

Hvert er yndi heimsins meira
en halda slóðir kærleikans?

láta bæði auga' og eyra
ástar stíga blíðu dans,
líknar verk æ fleira' og fleira
fríða salinn hjarta ranns.

Góða sér að binda brúði
blessun heimsins stærstu tel,
og það margan áfram knúði
í öllu hreint að reynast vel.
Ófarsældin á burt flúði,
indælt verður líf og hel.

---

## Kveðja.

Á hótelinu hafið öll þökk
fyrir heillanga alúð og gleði,
nú dregur upp skilnaðar mirkviðris mökk,
en minnumst hver tímann oss léði.

Og hvað, sem oss mætir, minnumst þess vel
í myrkviðri lífsins og glaumi,
í gegn um alt lífið, gegn um vort hel
göngum sem hetja mót straumi.

---

## Fyrsta sumarkvöld.

Hér á höfðingssetri
hef eg yndi og ró,
bænda býli þó,
betra' er vorið vetri.

Sumardaginn dýra
dregst eg inn í bæ
og þar yndi fæ,
hverja sál sé hýra.

Fells- við fagran -enda
firða gleður margt,
þjóðinni svo þarft,
er búskap á vill benda.

Vel sé þeim, er veita
væna fyrirmynd,
en forðast freistni og synd,
helgun má það heita.

Margan guð oss gefur
góðan heims um rann,
drottinn dýrkum þann,
sem að aldrei sefur.

---

## Guðni karlinn.

Guðni karlinn, Guðni karlinn
gleður sig við það,
börnin safnast saman, syngja, það er gaman,
:,: af því fara :,: ei vill hann á stað.

Guðna karli, Guðna karli
góðra kossa fjöld,
býðst hjá beztu snótum, blíðu meður hótum,
:,: mörgum sinnum :,: morgna, dag og kvöld.

Saklaus gleði, saklaus gleði
svo þar sprettur af,
leika sér að læra, lof og dýrð og æra,
:,; sé þeim guði, :,: sem oss lífið gaf.

---

## Heimsánægja.

Yndi' er upp til fjalla, eiga sauði við
og reka á réttar svið,
þar klyngir klukka' og bjalla.

Á fljótum hesti fara, fram um slétta grund,
oft mér styttir stund,
viljugum vökrum bara.

Mér er mest ánægja mínum vinum hjá
sungið heyra' og sjá
hægt að tala og hlægja.

---

## Réttardagur.

Er hér indælt í dag,
alt með gleðinnar brag
úti þó úrfellið streymi,
holt er heima' oss flest,
hrakviðri reisendum verst,
margur þó mæðunni gleymi.

Réttafólk rennvott í dag,
reiðkápur vætir og slag,
en hestarnir hungraðir skjálfa,
í kveld hleypir klárum á sprett,
hver einn ber fæturna nett,
hristast þá híbýlin álfa.

---

## Vetrarreið.

Skjóni minn skundar,
skaflarnir glymja,
við ísinn og steinana eiga þeir stríð,

:,: hátt innan stundar hálsarnir rymja,
en hólarnir kveða við bergmálin fríð. :,:

## Nú er veðrið.

Nú er veðrið, færðin fína,
farðu að búa reisu þína
hér til mín á hnikars kvendi,
hófafríðan reyna glað,
sá þér fylgja sjálfsagt nennir,
sem þú tíðum örmum spennir,
ef hann kyssir ástúðlega,
eg veit muni gera það.

## Kaffiblið.

Kem eg hér enn,
hvað skal til skemtunar gera?
að syngja senn
sýnist mér mátulegt vera,
á meðan kaffið í okkur er heitt,
eitthvað því verður að síkja,
til þess að gera sér lífið ei leitt
og láta burt deyfðina víkja.

## Stúlka óf sængurver.

Hjónasængin hlýja hefir verið nýtt,
eykst þá yndið fría, alt er kátt og blítt,
bros á vörum, brún og kinn,
kyssir munn, en hönd um háls,
hefir unnustinn.

## Barnamál.

Stelpan ef úr stokknum týnir
og stærstu tapast gripir mínir,
henni ljæ eg aldrei aftur
ágætustu gullin þau,
og þá má hún einatt gráta
eða minna nægja láta,
sína fátækt æ við una,
úr armæðunni gera spaug.

## Í hjástöðu.

Fór eg til fjér,
fann það nú alt í haga,
en utan þrjár,
öngvan sem tel þó baga,
heima tvær gista húsunum í,

hin þriðja í stórsauða flokki;
yndi mér veitir umsjón á því,
alt gljáir dáfríðum lokki.

---

## Í Hvalferð.

Ef að hún Lambey yrði að hval,
uppræki Kambs- á -nesi,
Dalasýsla hann skera skal,
skifta með kærleiks vési,
jöklurum miðlist mör,
svo mýkist þeirra kjör,
Ísfirðing beinin bezt,
er brúkist i hlunna flest,
meðlætis byr þá blési.

---

## Nýja hlaðan.

Mú er komin nýja hlaðan,
nú þarf ekki að hrekjast taðan
fyrir því,
ekki þarf að óttast skaðann,
ekkert stráið fýkur þaðan
fróns um bý.

---

## Kveðið á glugga.

Brautar erindið brátt er núna,
bið eg um naut og húsaskjól,
af því að er með yxna kúna,
ónæði vex og nætur ról,
í illfæru veðri uppgefinn
er nærri signor hreppstjórinn.

---

## Útsýnið á Höfða.

Hraunin svört, hraunin svört
hylja útsjón mesta,
gnýpur þar, gjábarmar, gnaga fætur hesta,
en nesin fríð blanka blíð,
hvar blikar leiðin gesta
og okkur verður indæli hið mesta.

---

## Vaknaður við hljóðfæraslátt.

Loks þá vakna við lúðurhljóm,
lystilegt mun að heyra
hörpu dynjandi hvellan róm,
hitt mun þó vega meira:
í flokk með fyrðum þar

fremja söng lofgjörðar
og skoða auglit hans,
er elskaði kynið manns,
frelsið að þakka og fleira.

---

## Óánægju-morguninn.

Sárt er sofna' og vakna,
sjá ei glaðan dag,
yndi og unaðs sakna,
eins þó gangi í hag,
þung sem blý er þessi lund,
einn guð veit þar orsök til,
ein það læknar stund.

---

## Þungir þankar.

Hvað er með og móti fljótt?
margt hvað gleður, þvingar;
hvað er séð og hverfur skjótt?
hvað eru geðshræringar?

gæfa tvískift tröppum sett,
trygðin hlýja fljóðsins,

sól við skýja randir rétt
renna fría blóðsins.

---

## Ólund.

Er sem holi hjartað sverð,
hrygðar þoli bruna,
sundurmola mest þó verð
melankoliskuna.

---

## Steingrímur smíðar stofu og kvað:

Nú er albúin nýa stofan,
nú mega koma gestirnir,
nú þarf ekki að nota kofann,
nú er margt öðruvísi en fyr,
nú mætti brúka nýjan sið,
nú ætti að bera inn púnsið.

*Guðni svarar:*

Albúin nýja ei er stofan,
ei mega koma gestirnir,
neyðast má til að nota kofann,
nýtt vantar borð og sykurker,

gerum því brúka gamlan sið,
grautinn við una og vatnsblandið.

*Steingrímur svarar:*

Nú er borðið búið,
bezt mun reyna það,
hvert mjög heiti snúið
hallast frá eða' að,
víns það staupin vitna um,
þegar á skeinkt fleyti full
færast gestonum.

Ó, þær yndis tíðir,
ef ég kæmi þá,
nær finnast fyrðar blíðir
og fellur staupa lág',
hvar glampa fögur glösin skær,
væri eg fleygur eins og örn
eflaust mundi nær.

*Guðni svarar:*

Bjór ef borðið þetta
borinn verður á
og færðu til þess frétta,
flýtt' þér hingað þá,
vera skaltu velkominn,

til þess vann þín mundin mest
meður hagleik sinn.

---

## Jón á Bergi kvað:

Miður stakka er margur vel,
má svo fyrir þakka,
en eyðir frakka eg afbragð tel
einn hann Guðna á Bakka.

*Guðni svarar:*

Leit þó férgi fleyir teins,
fjarri sinnis ergi,
ég finn hvergi annann eins
og hann Jón á Bergi.

---

## Kári kvað:

Guðni klýfur grjótið hér,
gilið rífur sundur,
vinnustífur enn þá er
aldinn fífulundur.

*Guðni svarar:*

Kári Grettis burði ber,
björgin þétt upp tekur,

þó er settur geira grér,
gleði netta vekur.

Kári fróðleik bezta ber,
bruggar hróður glaður,
víst er góður vopna grér
vinnu og ljóða maður.

---

## Eigðu þetta.

Eigðu þetta tímatal,
tíma þú sem notar vel,
loks það drottinn launar hal,
lifðu sæll þó fáir hel.

---

## Konan mín.

Öllum kvíða ekur frá,
yndið smíðar dýra,
Guðný blíð, er birta má
bólmey víðis fýra.

Á hreinum gæðum hefi eg brest,
hún það ræður vita,
mín vill græða meinin flest
mörkin flæðarhita.

---

## Er það tíðum.

Er það tíðum yndi manns
ýta fríðan gleðja muna,
sitja í blíðum barna krans,
bezt út þýða ritninguna.

---

## Að leiða.

Að leiða úr flóum lastanna
lýð á mjóu götuna,
yndi þróar ágæta,
alt svo grói af kærleika.

---

## Vit er vogstöng.

Hér þó krafli hendurnar,
handar skafl og gersemar,
vit er aflið vogstangar
viður taflið gæfunnar.

---

## Séra G. og séra M.

Ég í dölum svoddan sá,
söknuðurinn þvingar,

en gull nú fyrir gráta fá
góðir Skógstrendingar.

---

## Söknuður.

Þó þin megi sakna sárt
sveit í dala bygðum,
hugarfar þig Kristí klárt
krýni sönnum dygðum.

---

## Sárið.

Mörgum blæðir und í ár,
önd, sem hræðir, vætir brár,
vinar hæða kærleiks klár
Kristí græða blóðug sár.

---

## Þrír ríkismenn.

Bezt fær sniðið búskapinn,
brögnum miðlar greiða,
dygða-iðinn sérhvert sinn
Sumarliði á Breiða.

Þorbergsstaða Kristján kær
hvetur glaða drengi,

afbragðsmaður er frábær,
að sem laðast gengi.

Úrval þrái yndisligt,
ýta ei fáa hrellir,
burt er dáinn Benedikt,
bjóst frá Háafelli.

---

## Sundurlausar hestavísur.

Til að gleðja sinni og sál,
svipta burtu ama,
hér skal drekka hesta-skál,
halda á stað með sama.

---

Kols er svipur kærstur mér,
kenni' eg gripinn heppna,
finn og pipur furðu er
fóta lipur skepna.

---

Fljótur, vakur, viljugur,
vill ei blak af keyri,
hvergi spakur Kolskeggur
þá kemur bak á Jörundur.

---

lúið mitt að leggja hold
lausnarans á náðarvald.

---

Þegar dauða sig í sjá,
sviftur allri pínu,
bregður fyrir bragna þá
bjarma af lífi mínu.



# Leiðréttingar.

Á 12. síðu, 10. línu að neðan: baka fyrir baga. Á 13. síðu, 7. línu að neðan: klakinn fyrir klaki. Á 17. síðu, 5. línu að ofan: gróma fyrir góma. Á 26. síðu, 1. línu að ofan: blinaviðs fyrir blindviðs. Á 35. síðu, 3. línu að neðan: sinni fyrir sinna. Á 38. síðu, 9. línu að ofan: hverju fyrir hverja. Á 46. síðu, 9. línu að neðan: sefur fyrir sefar. Á 47. síðu, 8. línu að ofan: mun fyrir man. Á 49. síðu, 10. línu að ofan: Guð fyrir Guðs. Á 80. síðu, 13. línu að ofan: sljóa fyrir sljóva. Á 82. síðu, 7. línu að neðan: um fyrir nm. Á 90. síðu, 10. línu að neðan: sáðgras fyrir sáð garðs. Á 91. síðu, 12 línu að ofan: heyrist fyrir heiðrist. Á 101. síðu, 5. línu að ofan: ríg fyrir rig. Á 101. síðu, 2. línu að neðan: víst fyrir vist. Á 116. síðu, 7. línu að ofan: lofsöng fyrir lofsöngva. Á 124. síðu, 7. línu að neðan: Almáttuga fyrir Almáttug. Á 130. síðu, 2. línu að neðan: dygðuð fyrir dygðug. Á 134. síðu, 11. línu að ofan: þótt fyrir þátt. Á 138. síðu, 1. línu að ofan: tinda fyrir linda. Á 156. síðu, 5. línu að ofan: kennir fyrir kunnir. Á 159. síðu, 6. línu að ofan: spenni fyrir spannir. Á 175. síðu, 4. línu að ofan: Miður fyrir Meiður.

Þetta er góðfús lesari beðinn að leiðrétta áður en hann les bókina.

*Höf.*